því leyti hefir líklega hver einasti maður hækkað í verði. Og það er að vísu ánægjulegt. En hitt væri enn ánægjulegra, ef við fyndum það með sjálfum okkur, að við værum að hækka í verði þannig, að manngildi okkar væri að aukast; ef ekki aðeins vinnan, sem við leysum af hendi, væri að verða meira virði, heldur og orðin, sem við tölum og hugsanirnar, sem við hugsum; og ef við værum smátt og smátt að verða meira virði fyrir mannfélagið.

Það er sjálfsagt hverjum vinnandi manni ánægja að vita vinnu sína nú í tvöföldu verði við það, sem áður var. En ánægjulegra væri, ef við gætum sagt um okkur, að orð okkar og loforð hefðu helmingi meira gildi en áður. því að þá væri sannarlega manngildi okkar meira.

Einu sinni var lestamaður austan úr sveitum staddur í Reykjavík, sem oftar; og hann var beðinn að koma við hjá manni í bænum til þess að taka bréf austur um leið og hann færi. Ferðamaðurinn játaði því. En honum varð tafsamt að búa sig af stað og varð síðbúinn. Og í vastrinu gleymdi hann bréfinu; mundi ekki eftir því fyr en hann var kominn góðan spöl upp úr bænum. Honum þótti ilt að hafa brugðist loforði sínu, og bað samferðamenn sína að taka af sér lestina meðan hann skryppi til baka eftir bréfinu. En þeim þótti það óþarfi og neituðu að bæta á sig lestinni hans. Hann varð því að halda áfram. Þegar þeir komu á áfangastað um kvöldið, flýtti hann sér að ganga frá farangri sínum og hestum og reið síðan ofan í bæinn aftur og vitjaði bréfsins. Þetta sýnist nú lítilræði. Og maðurinn vissi það ekki, hvort bréfið var neitt áríðandi. En **honum** var áríðandi að standa við orð sín. Hann virti sjálfur orð sín og loforð hátt. Já-ið, sem hann hafði kveðið við því að bera bréfið, var honum dýrt. Honum hefði fundist hann lækka í verði, ef það hefði reynst markleysa. Þegar hann lagði upp úr áfangastaðnum morguninn eftir, hefir hann að sjálfsögðu verið þreyttari og syfjaðri fyrir tiltæki sitt um nóttina. En manngildi hans var meira fyrir bragðið. Hann komst hjá þeirri niðurlægingu, sem í því er fólgin, að vita sig hafa lækkað í verði.

Eg minnist á þetta af því að mig langar til, að allir hugsi út í, hvað sannarlegt manngildi er, hugsi út í, hve dýrmætt er að vita manngildi sitt vera að vaxa, og hve ógurleg niðurlæging það væri, að vita sjálfan sig vera að falla í verði. Mér þætti dýrtíðin mikils verð, ef hún gæti mint menn á það, að meta dýrt orð sín og loforð, sannfæringu og samvizku. Í hvert sinn, sem við heyrum talað um verðhækkun, ætti það að vera okkur hvöt til að keppa eftir auknu manngildi sjálfra okkar. Þegar einhver hlutur er seldur háu verði, þá hljótum við að krefjast þess, að hann sé einhvers virði, sé a. m. k. ósvikinn. Þegar vinna okkar er vel borguð, verðum við að gera þá kröfu til sjálfra okkar, að vinnan sé vel af hendi leyst. Það væri aumt, ef drengskapurinn einn væri lágt metinn, þegar alt annað hækkar í verði.

Ein af þeim lífsreglum, sem okkur hafa verið gefnar, er sú, að varast óþarfa eiða í daglegu tali. Flestir slíkir eiðar eru ljótur ósiður. Þó hefi eg heyrt getið um einn eið, sem mér finst til um. Eg hefi heyrt, að hann sé tíðkaður hjá Madyörum í Ungverja-

landi. Ef þeir eru rengdir um eitthvað eða tortrygðir, svo að þeir þykjast þurfa að hreinsa sig af því, eða fullyrða eitthvað sterklega, þá "sveia" þeir sér ekki "upp á það", eða bjóða hönd sína til staðfestu, heldur segja þeir aðeins: "Eg er Madyari". Það er þeirra hversdagslegi eiður, eða staðfesting orða sinna. Eg þekki lítið til þessarar þjóðar; veit ekki hve mikið gildi þessi eiður hefir. Það fer auðvitað eftir því, hvert manngildi þeirra er. En mér finst þetta fallegt orðtak. Sú hugsun liggur í því, að það sé ósæmilegt Madyara að segja ósatt eða að efna ekki orð sín. Það væri þjóðarsmán. En að svívirða þjóðerni sitt, það sé svo lúalegt, að slíkt sé engum manni ætlandi. — Gaman væri að eiga slíkan þjóðarmetnað. Gaman væri að þurfa ekki annað en að segja: "Eg er Íslendingur," til þess að enginn tryði manni til að gera sig sekan í ódrengskap, ósannindum, falsi eða flátt-skap. Það ætti að vera okkur á við dýran eið, að gera þessa yfirlýsingu: "Eg er Íslendingur".

Á öllum tímum hafa verið til menn, sem ekki meta dýrt sóma sinn né samvizku, óáreiðanlegir, svikulir, óráðvandir. Hvort minna er um þess konar ódygðir nú en áður, er ekki gott að fullyrða. Við heyrum enn getið um menn, sem selja sjálfa sig fyrir einhvern ávinning, selja sannfæringu sína, vinna sér til fjár með svikum eða ósannsögli. Eg býst við, að á þessum verðhækkunartímum láti menn ekki kaupa sig fyrir **eins lítið** og stundum áður. Enginn Júdas fengist nú fyrir 30 silfurpeninga til að vinna ódáðaverk. Júdasar þessara tíma láta sjálfsagt ekki bjóða sér minna en 3 þúsund eða 30 þúsund. Í þeim skilningi má því segja, að samvizkan sé dýrari en áður hafi hækkað í verði. En svo er þó ekki í raun og veru. Frá siðferðislegu sjónarmiði er það alveg sama, hvort maðurinn lætur sig falan fyrir 30 eða 30,000. Hann er jafn auðvirðilegur, hvort sem hann selur samvizku sína fyrir mikið eða lítið. Manngildi hans er jafn lítið, ef hann metur sóma sinn til fjár, hvort sem fjárhæðin er há eða lág.

Þegar við lesum Íslendingasögurnar gömlu, þá finnum við þar margt hroðalegt, grimd og hatur. En sjaldan er þar talað um regluleg níðingsverk. Yfirgangur og fégirnd var ekki óalgengt, en ódrengskapur fátíðari. Þó að forfeður okkar mettu mikils auð og völd, þá var þó drengskapurinn hærra metinn venjulega. Jafnvel á Sturlungatíð, hinni voðalegu spillingaröld, eimir talsvert eftir af þessari dygð.

Þegar þeir Gissur jarl og Þórður kakali börðust um völdin á Íslandi höfðu hvor um sig farið herskildi um heila landsfjórðunga og unnið mörg hryðjuverk, — þá urðu þeir loksins að leggja öll mál sín í konungsdóm. Hákon gamli Noregskonungur átti að dæma á milli þeirra, og þeir komu báðir á hans fund til þess að standa fyrir máli sínu. Þórður kakali var fyr látinn tala. Hann hélt langa ræðu, rakti sögu málsins og skýrði frá allri viðureign þeirra Gissurs. Síðan var Gissuri boðið til andsvara. En hann lýsir því yfir að mótstöðumaður sinn hafi skýrt hárrétt frá öllum málavöxtum. Gissur hafði enga athugasemd að gera við ræðu Þórðar; fann ekki, að hann hefði í nokkru hallað á sig, eða vikið frá sannleikanum.

Þetta mundi þykja einnkennileg málsfærsla nú á tímum. Og eg veit ekki, hvort lögmenn og málafærslumenn gætu lært slíkan málaflutning af nokkrum öðrum en Íslendingunum fornu. En þetta þykir ef til vill ekki þess vert að læra það, þykir ekki fyrirmynd. Það væri sjálfsagt ekki bezt atvinna, að flytja mál á þenna hátt.

En íhugunarvert er þetta dæmi. Einkum finst mér það merkilegt fyrir þá sök, að þar voru það ribbaldar og yfirgangsseggir, sem áttust við. En jafnvel hjá þeim var sannfæringin svo rík um það, hve ósæmilegt væri að halla réttu máli; það væri vesalmenska að vera ekki réttorður.

Mig langar til að ryfja upp með ykkur söguna af Ingjaldi í Hergilsey, sem sagt er frá í Gísla sögu Súrssonar. Oft hefir áður verið á hana minst. En það er aldrei of oft gert. Hún má ekki gleymast.

Gísli Súrsson hafði verið dæmdur sekur. Hann átti hvergi friðland. Enginn mátti veita honum bjargir. Og óvinir hans sóttu fast eftir lífi hans. Þá var það að Gísli flýði út í Hergilsey í Breiðafirði. Það er lítil ey, langt frá landi og langt frá öðrum bygðum eyjum. Þar gat Gísli leynst lengi, því að fáir komu þar; engir áttu þar leið um. Ingjaldur bóndi, er þar bjó, var fátækur maður og landseti Barkar digra. En Börkur var höfðingi og garpur mikill. Hann átti einna mestar sakir við Gísla. Gísli hafði vegið bróður hans.

Loksins kvisaðist það, hvar Gísli væri niðurkominn. Börkur gerir þá út skip með mörgum mönnum og siglir út í Hergilsey. Ingjaldur sá til ferða hans og þekti skipið. Með kænskubragði gat hann komið Gísla undan, en sjálfur tók hann á móti Berki, landsdrottni sínum, og ætlaði að verjast honum meðan hann gæti, til þess að tefja fyrir honum, meðan Gísli væri að komast sem lengst undan. Sagan segir frá samtali þeirra Barkar og Ingjalds þegar þeir fundust. Börkur krafðist þess að Ingjaldur seldi fram Gísla Súrsson, eða segði sér til hans. "Og ert þú mannhundur mikill," segir hann, "er þú hefir leynt bróðurbana mínum ok ert þó landseti minn; værir þú ills verður frá mér og maklegt að þú værir drepinn." Ingjaldur svaraði: "Eg hefi vond klæði, og hryggir mig ekki þótt eg slíti þeim ekki ger. Og fyr mun eg láta lífið en eg geri ekki Gísla alt það gott, sem eg má, og firri hann vandræðum."*)

Þetta svar gerði Börk ráðalausan. Alt vald hans var þarna komið í strand. Honum fanst hann eiga allskosta við þenna fátæka landseta sinn. Og Ingjaldur játar það líka, að hann geti tekið líf sitt og segist vera fús til að verða af með það. En hitt megnaði enginn máttur, að fá hann til að bregðast Gísla og vinna með því níðingsverk. Börkur átti ráð á lífi Ingjalds og vandamanna hans og öllum eignum hans, en yfir sannfæringu hans og samvizku hafði hann ekkert að segja. Þar var Ingjaldur algerlega óháður.

Það er gaman að horfa á þessa tvo menn, sem standa þarna andspænis hvor öðrum, höfðingjann ríka með mikinn liðsafla við hlið sér, og fátæklinginn í tötrum sínum einan síns liðs og stuðningslausan. En hvor var meira virði? Hvor var sterkari? — Börkur hefir sjálfsagt fundið talsvert

---

*) Tilvitnunin er gerð eftir minni.

til sín, það lýsir sér í orðum hans. En það finnum við öll, að hærra hefir Ingjaldur mátt meta manngildi sitt eftir þenna fund, heldur en hinn. Annar hækkaði í verði, hinn lækkaði.

Ef eg mætti vona, að dýrtíð sú og óöld, sem nú stendur yfir, hefði slíka verðhækkun í för með sér, — verðhækkun mannssálarinnar, — þá væri gaman að lifa, því að sú verðhækkun yrði þyngri á metunum en alt annað. Sögulesturinn á Íslandi hefir átt drjúgan þátt í því, að auka manngildi Íslendinga. Af líkum dæmum og þessu, sem eg nefndi, úr Gísla sögu Súrssonar, eru sögurnar okkar fullar. Þar er brugðið upp fyrir okkur hverri myndinni annari fegurri af sannri göfugmensku.

En nú bregður upp fyrir hugskotssjónum mínum annari mynd, gagnólíkri; mynd, sem eg sjálfur hefi séð.

Í ungdæmi mínu voru til flakkarar á Íslandi, ýmiskonar auðnuleysingjar, og stundum býsna einkennilegir. Einn af þeim, sem eg þekki, var alveg einstakur í sinni röð. Hann hét Jón Repp, eða er kunnastur undir því nafni. Hann hét reyndar Jón Jónsson. Hann var sveitungi minn, ættaður úr því bygðarlagi á Suðurlandi, sem í daglegu tali er kallað Hrepparnir. Jóni þessum þótti nafn sitt og föðurnafn heldur tilkomulítið og vildi hvorugt láta heyrast. Hann tók sér því ættarnafnið Repp, eftir sveitinni sinni. En honum var líka lítið um skírnarnafnið, vildi því ekki láta ávarpa sig Jón Repp, heldur aðeins: herra Repp. Hann var af góðu fólki kominn, myndarlegu bændafólki, en tók sig út úr frændliði sínu, þóttist of góður til að vinna venjulega sveitavinnu, og lagðist í flakk. Mest þótti honum varið í að umgangast ýmsa "heldri" menn í Reykjavík, sem drógu hann sundur í háði og æstu upp í honum hégómaskapinn, til þess að geta hlegið að honum. Þeir léðu honum eða gáfu honum uppgjafaföt af sér, sem einhverntíma höfðu verið fínustu spariföt. Og karlinn var ekki lítið upp með sér, þegar hann kom í þeim fötum heim í sveitina sína aftur. Þá vildi hann láta taka sér svo sem hann væri einhver velgerðamaður þjóðarinnar, eða stórhöfðingi, bjóða sér til stofu, og sitja marga daga í góðum fagnaði á helztu bæjunum. Eg man, hvað unglingum og gárungum var dillað, er þeir sáu hvernig Jóni Repp tókst að leika stórhöfðingjana í lafafrakkanum og með tilgerðarnafnið. Það var svo skoplegt að varla var unt að verjast hlátri. Allir fundu, hve þetta var lítilmannlegt, að keppa svo fast eftir því að sýnast annar en hann var og heimskulegt að ímynda sér, að **nafnið** og **fötin** gætu vilt nokkrum manni sýn.

Íslenzkan er löngum orðheppin. Hún á smellið orð um slíka menn. Þeir eru kallaðir uppskafningar. Mér dettur altaf Jón Repp í hug, þegar eg heyri það orð nefnt.

Uppskafningar eru alstaðar til. Og þið verðið að fyrirgefa mér, þó eg segi ykkur, að eg hefi heyrt það nafn nefnt í sambandi við suma Vestur-Íslendinga. Eg hefi heyrt getið um menn, sem ekki eru alveg ólíkir Jóni Repp, menn, sem vilja helzt ekki kannast við ætterni sitt, vilja dylja þjóðerni sitt. Þeir breyta nöfnum sínum, ekki einungis föðurnafni, heldur einnig skírnarnafni, á einhvern þann veg, að

erfitt sé að heyra af hvaða rót það sé runnið, og reyna með öllu móti að skafa af sér þjóðareinkennin.

En eg get undireins huggað ykkur með því, að fáir slíkir uppskafningar hafa orðið á vegi mínum í vetur.

Þegar eg var lítill, hló eg að uppskafningshættinum, hafði þá ekki vit á að vorkenna hann. Nú mundi eg ekki hlæja að honum. Það er ein af hinum mörgu velgerðum guðs og manna við mig í vetur, að mér hefir verið hlíft við þeirri sorg, að kynnast íslenzku fólki, sem fyrirverður sig fyrir þjóðerni sitt. Eg segi ekki þar með, að það fólk sé ekki til, en eg vona að það sé fágætt.

Eg er þá ósjálfrátt farinn að tala um þjóðerni, frá því að tala um manngildi. Einhvernveginn minnir það tvent hvort á annað. Og finst ykkur ekki eins og mér, að fátt sýni fremur rýrðar-manngildi en það, að vilja ekki láta sjá hver hann er. Þau fötin sæma bezt, er sjálfur á. Þá eru lélegustu tötrar betri en flíkur að láni. Lánsfötin fara oftast illa og gera mann skoplegan, jafnvel þó að þau séu úr glæsilegu efni og með nýtízkusniði.

Okkur finst til um Madyarann, sem eg mintist á áðan. Honum verður það fyrst fyrir að **segja til þjóðernis síns**, þegar hann vill hafa mikið við.

Svo hugsa eg mér Íslendinga framtíðarinnar, hvar sem þeir eru niðurkomnir í víðri veröld. Eg sé í anda daglaunamann hér í borginni við vinnu sína, að einum eða tveimur mannsöldrum liðnum. Eg sé einhverja slást upp á hann með brígslyrðum; hann hafi t. d. brugðist þeim við síðustu kosningar; hann hafi sjálfsagt látið múta sér til þess. Maðurinn lítur upp. Eg sé dráttina í andlitinu og glampann í bláu augunum, og eg kannast við hann þegar hann réttir úr sér og segir sér til varnar ekkert annað en þessi þrjú orð: **Eg er Íslendingur.** Og tign norræna andans ljómar af enni hans og augum.

Eg sagðist ekki hafa hitt marga landa hér vestra, sem skammast sín fyrir ætt sína og uppruna. Hitt er aftur á móti algengt, að þeir hafa enga trú á því, að geta varðveitt ættarmótið, og telja íslenzkuna og íslenzka þjóðernið dauðadæmt hér vestra. Ykkur mun flestum vera kunnugt um skoðanir mínar í því máli. Eg hefi ekki dregið dulur á þær í vetur. Eg hefi ekki séð nein dauðamerki önnur en þetta trúleysi, sem eg nefndi. Að öðru leyti finst mér andinn vera líkur og heima. Sami íslenzki andinn. Og hann mun lifa, því trúi eg. Eg trúi því, að íslenzkt þjóðerni lifi hér vestan hafs og verði til blessunar, fyrst og fremst ykkur sjálfum, til að viðhalda manngildi ykkar og auka það — til þess að þið hækkið í verði. Í öðru lagi til heilla þessu landi og þessari þjóð, sem þið nú heyrið til — því að hún þarf á **mönnum** að halda, en ekki uppskafningum. Og í þriðja lagi til blessunar og ánægju okkur heimalningunum á Íslandi; við tímum ekki að sjá af ykkur eða týna börnunum ykkar úr okkar fámenna hóp.

Þess vegna endurtek eg þá ósk, að íslenzki norræni andinn megi lifa hér í Vesturheimi. Og eg bæti því við: **Hann mun lifa!** Eg vildi að eg gæti hrópað það svo hátt, að hvert mannsbarn af íslenzku bergi brotið mætti heyra. Hann lifir! Það er síðasta orð mitt í þetta sinn.

# Vordraumur.

Eftir **Þorskabít.**



Lofts þá breyting boðar vorsins anda,
bendir þráin heim til Íslandsstranda.
Ungdóms átthaganna
útilegumanna,
sem að búi hinumegin hranna.

Hvernig annars ættu þeir að gleyma
unun þeirri, er vorið birtir heima?
Alt, sem hugvíl hrekur,
hjartans rósemd vekur,
lífs þar drottinn dag hvern endurtekur.

Eg í hugans dvala læt mig dreyma
dalinn, þar sem fyr eg átti heima;
vors á kyrru kveldi,
klæddan gróðurfeldi,
logandi í aftanroðans eldi.

En hvað sé eg? Undramynda-smíði
alt í kring, með fegurð, list og prýði.
Langt, sem augað eygir
útsýnið er teygir,
birtast lífsins litir dásamlegir.

Fagurt er í frjóa dalsins skauti.
Fjöllin búin dýru sumarskrauti.
Silfurlindar líða
létt um barminn hlíða.
Grænir borðar beggja megin prýða.

Hamrabeltin brúnir jafnar mynda.
Bakvið lengra sést á hvassa tinda.
Upp í heiði hæsta,
— himnaríki næsta —
skín á mjallar skildi tignarglæsta.

Bergvatns-ár um eyrar sléttar streyma,
en í hylnum gyltir fiskar sveima.
Sjást í botni' á sandi
sílin óteljandi,
eins og séu' að synda á þurru landi.

Sumarfugla söngur fagurt ómar.
Samanstiltir berast undra hljómar
langt um loftsins ranna.
Lögin dýpstu spanna
sterkir tónar strengja hljóðfæranna.

Sauðféð hátt í hlíðum dreifist grænum.
Hóandi fer smalinn upp frá bænum.
Hópast hjörð um brekkur.
Hleypur á eftir Flekkur.
Undir neðsta stallinum er stekkur.

Lömbin ung þar leika sér um grundir.
— Lambæskan á sínar skemti-stundir. —
Gaman er að eiga
ánægjuna', og mega
sætar veigar sakleysisins teyga.

Væri' eg horfinn heim með barnslegt geðið,
hlegið gæti' eg, sungið þá og kveðið.
Faðmað, kyst og klappað.
Kátt sem barnið vappað,
hoppað, dansað, stokkið, velst og stappað.

Man eg enn þá mína æsladaga.
Mín því fyrst þar byrjar æfisaga.
Alt er ljósaleikur,
lífs á meðan kveikur
brennur stilt og bagar enginn reykur.

Man eg vel á vetrarkvöldum öllum,
vinnu sína' er fólkið tók á pöllum.
Sérhver þá var seztur,
sögu og rímna lestur
flestum þótti fagnaðs-auki mestur.

Man eg ótal margt úr þessum sögum.
— Minni' er næmt og skýrt frá bernsku-dögum.—
Samt var sumt, er blekti.
Sumt þó eins og vekti
ímyndunarafl, sem fyr ei þekti.

Man eg kappa marga' og hrausta drengi.
Man eg risa, tröll og flagðamengi.
Man eg marga kellu
magna galdrabrellu.
Hettu, Skjaldvör, Hökk og Andramellu.

Man eg einnig mér hvað þótti gaman,
mensk þá hetja glímuþrótt með raman
skelti niður skessu.
Skemtun hafði' af þessu
betri en langri bæna'- og sálmamessu.

Ennþá man eg alt svo glögt er skeði
árin þau, er ríkti saklaus gleði.
Man eg alt, sem mætti.
Man eg alt sem grætti.
Man eg alt, sem meinin bætti' og kætti.

Man eg sumars morgundýrðarljóma.
Man eg alt, sem vakti gleðihljóma.
Alt, sem æskan dáði.
Alt, sem vonin spáði.
Alt, sem hjartað innilega þráði.

Man eg alt, sem ung mín sálin lærði.
Alt, sem blíðar tilfinningar nærði.
Bænamál og bögur.
Barnagullin fögur.
Ástarinnar æfintýrasögur.

---

Ættjörð mín! Þú mér ert kær sem áður.
Minninganna' ei slitinn verður þráður.
Alt að þakka' eg á þér.
Alt mitt bezta' er frá þér.
Alt er bjart, þá hugurinn er hjá þér.

Örlög grimm mig frá þér hröktu fyrrum.
Fanst þeim of gott mér að vera kyrrum.
Hugann fengu' ei fangað,
fer því löngum þangað,
sem hann altaf síðan hefir langað.

---

Gaman væri' að vera einu sinni
vors í blíðu heima' á ættjörðinni.
Hlíða' á svanahljóma.
Horfa' á kvöldin ljóma.
Finna ilminn angansætra blóma.

Kanske' eg fái, dauðans eftir dvala,
dularheims á vængjum þránni svala.
Líta laufga bala.
Leiktjöld æskusala.
— Guða-málverk móðurjarðar-dala.



# Eiríkur Magnússon.

Eftir **Guðm. Árnason.**



Að flestra dómi mun það vel við eiga, að ársrit Þjóðræknisfélags vors Vestur-Íslendinga flytji æfisögur sem flestra merkra Íslendinga, er dvalið hafa langvistum í öðrum löndum. Fyrst og fremst hafa þeir menn oft verið ættlandi sínu til hins mesta gagns og sóma, og í öðru lagi stendur það oss Vestur-Íslendingum næst að minnast þeirra,



Eiríkur Magnússon.

því að í vissum skilningi stöndum vér allir í þeirra sporum. Hvort sem vér afrekum mikið eða lítið, sem í minnum verður haft í framtíðinni, hlýtur það að einhverju leyti að tileinkast íslenzku þjóðinni. Sá sannleikur er degimum ljósari, að þjóðerni vort á mikinn þátt í hvað vér erum og verðum. Ágætismenn íslenzku þjóðarinnar, sem erlendis hafa lifað, hafa verið taldir Íslendingar og hafa verið íslenzkri þjóð til sæmdar. Það sem á við þá í þessu efni á eins við oss, þótt vér fæstir getum staðið þeim jafnfætis. Þeir eru oss fyrirmyndir og sönnun þess hvað Íslendingurinn í útlöndum getur unnið til gagns fyrir heimaþjóð sína og ættland.

Sá maður, sem hér um ræðir, átti óefað sæti meðal allra fremstu sona Íslands, sem erlendis hafa dvalið. Minningu hans verður haldið á lofti sem fræðimanns, er vann mikið og þarft verk í þágu íslenzkra bókmenta, og einnig sem Íslandsvinar. Þótt hann dveldi marga ártugi í öðru landi, var hann ávalt jafn einlægur og tryggur vinur föðurlands síns til dauðadags. Öllum þeim sem kyntust honum persónulega, mun ljúft að minnast hans, ekki sízt vegna þess, hversu hiklaust og drengilega föðurlandsást hans kom í ljós í hvert skifti og umræður hnigu að Íslandi og málefnum íslenzku þjóðarinnar.

Ef segja ætti æfisögu Eiríks Magnússonar ítarlega, yrði það langt mál. En bæði er það, að mig brestur kunnugleika til þess og svo mun rúm takmarkað í ársritinu; læt eg því nægja, að drepa á helztu æfiatriðin, en vildi hafa mannlýsinguna, eftir því sem hann kom mér fyrir sjónir við stutta viðkynningu, þeim mun fyllri.

Eiríkur Magnússon var fæddur á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu 1. febrúar 1833. Foreldar hans voru Magnús Bergsson prestur og Vilborg Eiríksdóttir. Hann ólst upp að Stöð í Stöðvarfirði, þar sem faðir hans var prestur, frá því hann var tveggja ára þar til hann var sextán ára. Fór hann þá í latínuskólann í Reykjavík og útskrifaðist úr honum 1856 með bezta vitnisburði. Eftir það var hann eitt ár kennari á Ísafirði. Árið 1857 giftist hann Sigríði Einarsdóttur Sæmundsen frá Brekkubæ í Reykjavík og sama ár byrjaði hann nám á prestaskólanum. Tveimur árum síðar útskrifaðist hann þaðan og gerðist sama ár skrifari hjá Vilhjálmi Finsen er var land- og bæjarfógeti í Reykjavík. Gengdi hann þeirri stöðu til 1862. Þá fór hann til Englands, til að aðstoða við útgáfu biblíunnar, er gefin var út á íslenzku af brezka og erlenda biblíufélaginu um þær mundir. Bjó hann í Lundúnumu af og til næstu níu ár, en ferðaðist þó mikið á þeim árum; dvaldi árlangt á Frakklandi, um tíma á Þýzkalandi og ferðaðist um ýms önnur lönd. 1871 var honum veitt bókavarðarstaða við háskólabókasafnið í Cambridge á Englandi. Bókavarðarembættinu gegndi hann til ársins 1909 er hann sagði því af sér. Auk bókavarðarembættisins hafði hann oftast nær á hendi kenslu í Íslenzku og öðrum Norðurlandamálum. Eftir að hann lagði það niður bjó hann í rambridge til dauðadags, 24. jan, 1913.

Upprunalega mun það ekki hafa verið tilgangur Eiríks og konu hans að ílendast á Englandi, þótt svo færi. En happ má það kalla fyrir íslenzku þjóðina, að hann komst þar í stöðu, sem veitti honum möguleika að iðka það starf, sem hann var bezt fallinn til: vísindalegar rannsóknir á sviði bókmentanna. Hann vann afarmikið að því að útbreiða þekkingu á íslenzkum bókmentum meðal fræðimanna í hinum enskumælandi heimi og lagði sig mjög niður við rannsóknir í þeirri grein. Gegnir það furðu, hversu miklu hann fékk afkastað í því efni, þótt hann væri stöðugt bundinn við skylduverk sitt í bókasafninu. Og ekki hefði honum hentað að vanrækja það, því aðalumsjónarmaður safnsins var því mótfallinn að Eiríki væri veitt staðan og hélt fram öðrum manni á móti honum. Eiríki var falin á hendur öll umsjón á norrænudeild bókasafnsins. Korn hann fljótt góðu skipulagi á hana, en áður hafði hún verið mjög vanrækt, og auðgaði hana stórum af bókum á Norðurlandamálum. Ritstörf hans voru aukaverk, en staðan var vel til þess fallin, að hann gæti gefið sig við þeim. Fáir eða engir, sem ekki hafa haft á hendi kennaraembætti í norrænni málfræði og bókmentum, munu hafa afkastað jafnmiklu og hann.

Ritstörf Eiríks voru aðallega í þýðingum og vísindalegum ritgerðum. Hann þýddi mestu kynstur af íslenzku á ensku og ritaði fjölda ritgerða, stuttar og langar um íslenzkar og norrænar bókmentir. Hér eru aðeins talin helztu rit hans. Við útgáfu sumra þeirra vann hann í félagi með öðrum, svo sem þeim George Powell og William Morris, listamanninum nafnkunna, sem var honum kærastur allra vina hans á Englandi, meðan báðir lifðu. Mest af verkinu mun samt hafa lent á Eiríki við þýðingu og útgáfu rita þeirra, er þessir menn studdu að .

Með því fyrsta, sem út kom eftir Eirík á ensku, voru ritgerðir tvær um rúnir. Voru þær árangurinn af rannsóknarferð, er hann fór um Norðurlönd til þess að rannsaka rúnasteina. Þar næst komu þýðingar af íslenzkum þjóðsögnum (Legends of Iceland) í tveimur bindum. Síðan komu út þýðingar af eftirfylgjandi Norðurlanda- og Íslendingasögum: Grettissögu, Völsungasögu, Friðþófssögu, Gunnlaugs sögu Ormstungu, Hænsaþórirssögu, Bandamannasögu, Eyrbyggju og fjögur bindi af Heimskringlu, með fjölda mörgum skýringum. Einnig þýðing af kvæðinu "Lilja". Af frumsömdum ritgerðum á ensku eftir hann eru þessar einkum merkilegar: "Odin's Horse, Yggdrasill", ný skýring á Eddusögunni um askinn, þ. e. tréð, sem menn héldu að Yggdrasils nafnið ætti við. Sýndi Eiríkur fram á, að Yggdrasill þýddi sama og hestur Óðins, Sleipnir. "Edda, its derivation and meaning". Færir hann í þeirri ritgerð rök fyrir því að Edda, nafn bókarinnar, sé dregið af bæjarnafninu Oddi. "Notes on shipbuilding in the North", mjög merkileg ritgerð, er skýrir frá skipabyggingum fornmanna. Er það þáttur úr menningarsögu mannkynsins, sem skýrir frá framförum í skipabyggingum og siglingum á Norðurlöndum.

Auk þessara ritgerða eru til fjölda margar aðrar eftir hann á ensku. Eru sumar fyrirlestrar, sem hann flutti í málfræðingafélaginu í Cambridge eða The Viking Club í Lundúnum. Var hann meðlimur beggja þessara félaga og flutti oft fyrirlestra í þeim.

Af enskum ritverkum þýddi Eiríkur á íslenzku "The Pilgrim's Progress", skáldsöguna frægu eftir Bunyan, og "Storminn" (The Tempest) eftir Shakespeare. Úr sænsku þýddi hann allmikið á ensku eftir Runeberg, þar á meðal langt skáldverk, "King Fjalar", sem hann var að ljúka við seinustu árin er hann lifði. Sálminn alkunna, "Alt eins og blómstrið eina", þýddi hann á ensku. Hann ritaði fjölda blaðagreina, bæði á ensku og íslenzku, um ýms mál, sem snertu Ísland, svo sem bankamálið, þegar stofna átti banka á Íslandi, og fleiri. Hann tók mikinn þátt í enskum málum, og ávalt með brennandi áhuga. Áhuginn var honum eiginlegur; hann var heill og óskiftur í öllum málum, sem hann lét sig nokkru skifta, annað hvort með eða á móti.

Það var ekkert smáræðis verk, sem Eiríkur afkastaði á sviði íslenzkra og enskra bókmenta, en samt var starf hans fyrir Ísland engan veginn bundið við það. Eins og tekið hefir verið fram, lét hann sig mörg mál íslenzku þjóðarinnar miklu skifta, en bezt lýsti ást hans til Íslands sér í því, hversu vel og drengilega hann brást við, þegar íslenzku þjóðinni reið mest á að fá hjálp frá öðrum löndum. Árið 1875 var mesta vandræðaár á Austurlandi, sökum öskufalls. Safnaði Eiríkur þá á Bretlandi gjöfum, sem námu 45,000 króna og fór sjálfur með féð til Íslands og sá um útbýtingu þess. Aftur 1882, þegar harðindi gengu yfir alt land, safnaði hann samskotum, er urðu yfir 86,000 krónur. Komst hann þá í óvingan við nokkra helztu menn Íslands, sem af skammsýni rituðu á móti þessum samskotum í Lundúnablaðið Times, og töldu þau óþörf. Sárnaði Eiríki, sem von var, framkoma þessara manna, og eigi var hann búinn að gleyma henni nærri þrjátíu árum síð-

ar; enda lá við að hún spilti áliti hans eigi lítið á Englandi. Aftur fór hann til Íslands í þetta sinn og sá um útbýtingu gjafanna. Var honum þá haldið veglegt samsæti í Reykjavík og næsta ár sýndi danska stjórnin honum viðeigandi viðurkenningu með því að sæma hann heiðursmerki dannebrogsmanna. Það var og Eiríki að þakka, að Jóni Sigurðssyni kom hjálp, er hann þurfti hennar mest með, og gerði honum mögulegt að halda áfram starfi sínu í baráttunni fyrir sjálfstæði Íslands. Mun hjálpin til Jóns Sigurðsonar hafa komið með þeim hætti, að Eiríkur fékk enskan auðmannn, sem var Íslandi vinveittur, til að lána Jóni fé, svo um munaði.

Eg var svo heppinn að kynnast Eiríki nokkuð árið 1910. Dvaldi eg þá tveggja vikna tíma í Cambridge og var daglegur gestur á heimili hans. Það var ekki erfitt að kynnast honum, því hann tók öllum, sem að garði komu, með opnum örmum, einkum ef þeir voru Íslendingar. Var kona hans honum samtaka í því, enda var rausn þeirra og velvild við brugðið af öllum, sem heimsóttu þau.

Eiríkur var þá orðinn aldraður maður og heilsutæpur, en þrátt fyrir það bar hann sig vel og var síglaður og skemtilegur í viðmóti. Hann var allra manna háttprúðastur og ljúfmannnlegastur í framkomu, laus við yfirlæti og tilgerð, hreinskilinn og sagði blátt áfram meiningu sína, hvað sem bar á góma. Fáir menn, sem eg hefi þekt, hafa borið sálareinkenni sín í svipnum eins og hann. Svipurinn var einkennilega hreinn og djarfmannlegur, augun skýr, ennið hátt og höfðinglegt. Að vexti var hann meðalmaður, nokkuð feitlaginn á síðari árum, en líkamshreyfingarnar báru vott um að hann hefði verið léttur á fæti og fjörmaður hinn mesti á yngri árum. Yfirleitt var hann fríður maður og framúrskarandi aðlaðandi. Það var með hann eins og Browning segir um skáldið Shelley, að það að hitta hann og tala við hann var atburður, sem manni leið ekki fljótt úr minni. Í samræðum var hann gamansamur og fyndinn og gat verið meinyrtur í garð þeirra, sem honum gazt ekki vel að eða voru mótstöðumenn hans. En sanngjarn var hann þó í þeirra garð og fús á að viðurkenna það sem þeir höfðu til síns ágætis. Um vini sína talaði hann ávalt mjög hlýlega; en ósýnt var honum um að hlaða oflofi á menn, jafnvel þótt um beztu vini væri að ræða. Vel gat hann orðið heitur og kappsfullur, þegar einhver áhugamál hans komu til umræðu, sem oft var, því hann bar áhugamál sín stöðugt fyrir brjósti og hafði mikla ánægju af að ræða um þau. Smásaga ein, sem fyrrum alþingismaður, Jón Jónsson frá Sleðbrjót, hefir sagt mér af honum, lýsir vel áhuga hans og kappi, er hann ræddi um áhugamál sín við aðra. Þeir hittust eitt sinn, Jón og Eiríkur, á Hallfreðarstöðum hjá Páli Ólafssyni. Fóru þeir að ræða um bankamálið á Íslandi, sem var eitt af mestu áhugamálum Eiríks, og urðu ekki að öllu leyti samdóma um það. Mælti Eiríkur fast fram með sinni hlið málsins, og segir Jón, að hann hafi orðið svo heitur, að honum hafi hrokkið tár af augum. Fæstir menn mundu hafa rætt um slíkt mál með jafn mikilli tilfinningu. En það var einmitt eitt af einkennum Eiríks, að honum urðu öll

áhugamál að tilfinningamálum; þau voru honum heilög mál.

Eins og fram hefir verið tekið, var Eiríkur allra manna skemtilegastur í samræðum, en það var ekki aðeins fjörið og fyndnin, sem var orsök þess, heldur einnig þekking hans, sem var afar víðtæk og risti djúpt, ekki aðeins á hans sérstöku fræðigreinum, heldur í ótal mörgu. Hann reyndi ekki að sýna mentun sína, með því að tildra henni fram; til þess var hann alt of vel mentaður maður; en hún kom sjálfkrafa og eðlilega í ljós. Manni eins og honum var ómögulegt að tala við aðra án þess að fræða. Hann vissi af því, að hann átti óvenjulega mikinn þekkingarforða og til þess hafði hann líka fullan rétt. Það var einkum hin frábæra þekking hans á málfræði, sem kom í ljós í samræðum. Eitt einasta orð gat vakið athygli hans, og kom það þá fyrir, að hann skaut langri sögu um orðið, uppruna þess og þroska, inn í samræðuna, án þess að hún slitnaði við það. Hann hafði framúrskarandi gott lag á því að útskýra og leysa greiðlega úr öllum spurningum, og hefði hann eflaust orðið afbragðs kennari, ef kensla hefði verið aðalstarf hans. Það var sem hann myndi alt út í æsar, enda hafði hann lesið og unnið með athygli. Einn dag kom eg með honum í bókhlöðu háskólans. Sýndi hann mér þar meðal annars grískt handrit af nýja testamentinu, eða einhverjum hluta þess. Fletti hann upp í því á ýmsum stöðum og benti á mismun í orðlagi í því og öðrum handritum nýja testamentisins. Og svona var með alt er laut að söngulegum fræðum, tungumálum og bókmentum, hann var jafn vel heima í öllu. Tungumálaþekkingu hans var við brugðið. Eru það litlar ýkjur, sem sagt var um hann einu sinni, að hann gæti talað tólf tungumál í einu. Hann talaði, auk Íslenzkunnar og Enskunnar, öll Norðurlandamálin, Frönsku og Þýzku. Sænsku talaði hann alveg eins og innfæddur maður. Ítölsku og Spönsku hafði hann einnig lagt stund á. Fornmálin kunni hann ágætlega og auk þess Hebresku og nokkuð í Sanskrít.

Skoðanir sínar varði Eiríkur af kappi, þegar því var að skifta, og hætti honum ef til vill við, líkt og mörgum kappsmönnum, að gera fremur lítið úr skoðunum andstæðinga sinna. Komst hann stundum í snarpar ritdeilur og hélt máli sínu ávalt fram sleitulaust. Enginn þurfti að ætla sér, að fá hann til þess að fallast á það sem hann hafði ekki hugsað vel um sjálfur eða honum fanst miður sennilegt. Er til spaugleg saga um viðureign hans og trúboða nokkurs, vestur-íslenzks, sem kom til hans og vildi ræða við hann um trúmál, eða, réttara sagt, vildi boða honum trú sína. Manninum var boðið inn í lestrarherbergi Eiríks' sem var uppi á lofti, en kona Eiríks fór að sjá um góðgerðir handa honum. Eftir nokkra stund heyrir hún að Eiríkur og trúboðinn eru komnir í allharða deilu uppi á loftinu og smáharðnar deilan, þar til trúboðinn kemur í hendingskasti ofan stigann og stekkur út, án þess að kveðja. En Eiríkur stendur eftir uppi á loftinu og hrópar á eftir honum fá orð í fullri meiningu um það, hvert hann skuli fara. Hafði hann þá orðið afar reiður vegna þess að maðurinn ætlaði umsvifalaust og með talsverðri frekju að fá Eirík til þess að fallast á sínar skoðanir. Sagði frú Sigríður, að

hún myndi ekki til þess, að Eiríkur hefði í annað sinn vísað manni á dyr; enda munu fáir hafa orðið til þess að reyna að vaða ofan í hann með öfgum og ofstæki. Annars talaði Eiríkur mjög lítið um trúmál, nema þá frá sögulegu sjónarmiði. Hann tilheyrði engum trúmálaflokki og gekk aldrei, eða sjaldan í kirkju á síðari árum. En vel lágu honum orð til allra' sem börðust fyrir víðsýni í trúmálum.

Öðru máli var að gegna með stjórnmálin; um þau talaði hann gjarnan. Hann krafðist eindregið fulls sjálfstæðis fyrir Ísland. Var það bæði hagsmunalegt og stjórnarfarslegt sjálfstæði þjóðarinnar, sem hann bar fyrir brjósti. Hélt hann því fram, að Íslendingar væru svo bundnir Dönum í fjármálalegum efnum, að þeir gætu eigi orðið þeim óháðir í neinum skilningi, fyr en fjármál landsins væru komin í rétt horf. Alt sem hann ritaði um bankamál Íslands var bygt á þessari skoðun. Hagsmunalegt sjálfstæði var í hans augum sá hyrningarsteinn, sem alt annað sjálfstæði varð að grundvallast á. Í enskum stjórnmálum fylgdi hann frjálslynda flokknum og mat mikils hina miklu þjóðmálaskörunga Bretlands, sem barist höfðu fyrir þjóðfrelsi og á móti afturhaldi. Yfir höfuð var hann mjög frjálslyndur og víðsýnn í öllu er að mannfélagsmálum laut.

Hversdagslega var Eiríkur gleðimaður mikill á heimili sínu, og enginn dagur leið víst svo, væri hann annars á fótum, að hann gerði ekki heimafólki sínu eitthvað til skemtunar. Þau hjónin telfdu kotru á hverjum degi nokkra stund eftir miðdagsverð. Var mér sagt að það væri gamall siður, sem þau mjög sjaldan brygðu út af. Aðrar skemtanir voru helzt spil, samræður og skemtigöngur út á landsbygðina umhverfis Cambridge. Heimilislíf hans var mjög kyrlátt, þótt margir heimsæktu hann. Þegar eg kyntist honum voru þar, auk hjónanna, 2 frænkur frú Sigríðar, Sigríður Sigurðardóttir Gunnarssonar, systurdóttir hennar, og Sigríður Einarsdóttir, bróðurdóttir hennar. Höfðu þau boðið þeim til sín til dvalar og voru þeim sem foreldrar. Mörg önnur skyldmenni þeirra hjóna höfðu dvalið hjá þeim tímum saman, og einn bróðurson Eiríks, Magnús Magnússon, sem nú á heima í Bandaríkjunum, ólu þau upp. Gestir Eiríks voru einkum útlendingar sem til Cambridge komu. Íslendingar, sem komu til Englands, heimsóttu hann oft og fjölda margir aðrir. Var öllum tekið með einstakri alúð og var Eiríkur jafnan reiðubúinn að veita útlendingum alla þá aðstoð, sem hann gat, einkum ef þeir voru námsmenn. Var það þeim mikil hjálp, að hann gat talað við þá flesta á þeirra eigin tungu, og ekki var hætt við að þeim leiddist lífið meðan þeir voru í návist við hann. Á síðustu árum tók hann orðið lítinn þátt í félagslífinu, en marga góða vini átti hann í Cambridge, sem voru tíðir gestir hjá honum. Meðal þeirra voru Dr. Dutt, indverskur læknir búsettur í Cambridge og kona hans, sænsk að ætt; Farren málari og fjölskylda hans, gamlir vinir þeirra hjóna; prestur nokkur Kermode að nafni og kona hans; tvær systur, Kennedy að nafni, kennarar og kvenmentunarfrömuðir, og fleiri. Á sumrin dvaldi Eiríkur oft um tíma á Frakklandi hjá vini sínum, Hyde að nafni, enskum manni búsettum þar.

Oft ræddi Eiríkur um skáldskap.

Hafði hann lesið fjarskann allann af skáldverkum og kunni vel að meta gildi þeirra. Hann hafði mikla ánægju af að lesa upphátt fyrir aðra kvæði eftir uppáhaldsskáld sín og oft las hann fyrir heima fólk sitt sínar eigin þýðingar og annað er hann ritaði. Af útlendum skáldum mun hann hafa haldið mest upp á Runeberg, Byron, Heine og Swinburne og af íslenzkum skáldum held eg að Benedikt Gröndal, Steingrímur Thorsteinsson og Einar Benediktsson hafi verið honum kærastir. Gröndal var fornvinur hans og þeirra hjóna beggja. Áttu þau eigin handrit Gröndals af "Tólf álna langt og tvírætt kvæði", sem hann orti til frú Sigríðar, er hún var ung stúlka og gaf henni í afmælisgjöf. Handritið var vafið upp á kefli og var tólf álna eða tuttugu feta langt. Af íslenzkum skáldsagnahöfundum þótti honum mest varið í Jón Trausta. Það lætur að líkindum að maður, sem jafn mikið hafði lesið og jafn vel var kunnur bókmentum margra þjóða og ritaði þar að auki mjög hreint og fagurt mál sjálfur, hafi haft vit á að dæma um skáldskap. Í hans augum var skáldskapurinn list, sem er næstum of háleit og fögur til þess að vera gerð að búningi nokkurra hversdags hugsana. Fór hann ómjúkum orðum um sumt, sem kallast skáldskapur, en sem honum fanst lítið hafa að geyma af því sem gefur verulegum skáldskap ævarandi gildi.

Þrátt fyrir það þótt Eiríkur væri búinn að vera nær 50 ár á Englandi, var hann þaulkunnugur öllu sem var að gerast á Íslandi og fylgdist nákvæmlega með flestum málum þar. Hann var Íslendingur fyrst og seinast. Vel kunni hann við sig á Englandi og ekki fýsti hann að flytja til Íslands, þótt hann ynni landinu. Fanst honum að sumir þar heima hefðu eigi skilið sumar tillögur sínar um landsmál sem bezt og eigi viljað unna sér sannmælis. Var honum fremur þungt í skapi til þeirra manna, en var þó fús til sátta við mótstöðumenn sína, því hann var allra manna göfuglyndastur. Á Englandi naut hann virðingar og vináttu fjölda margra ágætismanna. Hann var viðurkendur sem fræðimaður, og sýndi háskólinn í Cambridge honum þá virðingu að veita honum meistara nafnbót. Margir, sem vildu nema íslenzku og kynnast íslenzkum bókmentum, leituðu til hans og kendi hann mörgum. Þegar hann sagði af sér bókavarðarembættinu, er hann gat ekki gegnt því lengur, sökum lasleika, voru honum veitt eftirlaun, sem nægðu honum meðan hann lifði.

Frú Sigríður kona Eiríks, var stórmerk kona. Hún var honum samhent í því að gera heimilið skemtilegt og aðlaðandi. Var hún rausnar kona og vildi láta alt vera sem myndarlegast er til hennar kasta kom. Hún var dugnaðarkona með afbrigðum og fór í löng og erfið ferðalög fram á síðustu ár. Um eitt skeið lét hún sér mjög umhugað um mentun kvenna á Íslandi og átti góðan þátt í að þar var stofnaður kvennaskóli, þótt aðrir fengju mestan heiðurinn af því. Einnig var hún óþreytandi í því að útbreiða þekkingu á Íslandi og íslenzkum handiðnaði á Englandi og víðar. Fór hún til Ameríku og dvaldi þar lengi, flutti fyrirlestra um Ísland og vakti athygli fólks á því. Hún tók drjúgan þátt í kvennfrelsismálinu og ýmsum öðrum framfaramálum og vann að öllu, sem hún tók

sér fyrir hendur, með mesta áhuga og elju. Ýmsir urðu til þess að veita tilraunum hennar eftirtekt og sýna henni viðurkenningu, þar á meðal Victoría drotning, sem sendi henni ljósmynd af sér með eiginhandar kveðju. Því miður voru sumir Íslendingar heima því mótfallnir, að hún sýndi íslenzka muni í öðrum löndum, og gerði einn íslenzkur blaðamaður mjög óverðskuldaða árás á hana fyrir það. En langt er orðið síðan, og væri slíkt þröngsýni næstum óhugsandi nú á dögum.

Frú Sigríður lifði þrjú ár eftir dauða manns síns. Fluttist hún til Danmerkur og dó þar. Var hún orðin farin að heilsu, enda var hún komin á háan aldur. Systurdóttir hennar, sem áður er nefnd, var hjá henni þangað til hún dó.



# Þrjú Kvæði.

Eftir **Jakobínu Johnson**.

## Íslenzk arfleifð.

Þú ástkæra land minna áa,
umgirt af hafinu bláa,
með kórónu jökla, sem byrgja' inni bál,
þín hugðnæmu ljóðin mig hylla
og hjarta mitt eldmóði fylla.
— Þau eru þín ódauðleg sál.

Það faðir minn forðum mér kendi,
og fast það í sál mína brendi
með kærleikans eldi' er í augum hans skein:
"Ef varðveitir arfleifð þíns anda,
þér ekkert í heimi má granda, —
— og dauðinn er dagrenning ein."

---

### Mig langar. —

Mig langar að ferðast með vorljúfum vind,
— því vorloftið heillar mig brott:
Að leika' upp um hóla eins létt eins og hind,
og langhelzt að klifra' einhvern fjalla tind,
þar ei kendi áhyggju vott.

Eins vildi' eg setjast í sólgylta hlíð
og safna' að mér smá-barna fjöld.
Og kveða þeim kvæði um fiðrildin fríð,
og fjörugar sögur um álfheima-lýð.
— Og hugsa' ekki heim fyrir kvöld.

— — — — — — —

Svo nálægðist hljóðlega' 'in hugþekka nótt
með hjúp sinn um skóga og grund;
og stórborgin andaði höfugt, en hljótt,
í hlíðunum náttljósin blikuðu skjótt —
— þá hneigði eg höfuð í blund. —

---

### Samlokan.

Eg gekk fram með sjónum eitt sumardagskvöld,
— sólin var hnígin og golan var köld; —
eg sá þar að flóðaldan flutt hafði' á land
fjölmargar skeljar og barið í sand.

Eg tók eina samloku, samfelda vel,
og sýndist að þar mundi fiskur í skel.
Þá heyrðist mér rödd, eins og hverfandi lag:
"Þér hafið víst gengið í kirkju í dag,

og heyrt þar: ef skipsflaki skolar að strönd,
hve skyldan er auðsæ að rétta fram hönd.
— Æ, gætið þess betur, og gerið svo vel,
grandið ei dálitlum fiski í skel."

Eg færði' hann að sjónum. "Æ, flóðalda mín,
flyt þú hann aftur í heimkynni sín."
— Því fegin í huga eg fagna með þeim,
Sem finnur þann stað, er hann nefnt getur heim.

# Tvær sögur.

Eftir **Arnrúnu frá Felli.**



## Amma mín góð.

Þóranna í Kjartanshúsi sat og prjónaði — prjónaði af svo miklu kappi, að ekki sáust prjónaskil. Það var engin furða, þó hún væri alment kölluð "Prjóna-Nanna", því fáar eða engar stóðu henni á sporði. — Og svo hafði hún alið aldur sinn á Sandfirði.

"Tvær skotthúfur, tvær og fimtíu; tvær hyrnur, fimm hvor; einir fingravetlingar. — Hver er nú að koma upp stigann? — Þrjú pör af sjóvetlingum. — Kom inn!"

"Komi hún blessuð! Verst hvað eg ber mikinn snjó inn. En þú veizt hvernig færðin er á kattarhryggnum milli Glundroðans og Gummabúðarinnar. — Þakka þér fyrir! Eg ætla að stappa svolítið betur af mér. — Blessuð er hlýjan. Mikið hefir hann kakkað niður af snjónum undanfarið," sagði Geirfinna Davíðskona, um leið og hún settist fyrir framan ofninn.

"Taktu af þér hettuklútinn og sjalið, Geirfinna. Sestu á sófann og láttu fara vel um þig.." Þóranna ýtti gleraugunum framar á nefið, og hélt svo áfram að prjóna.

"Það fer vel um mig hérna, elska. Eg ber bleytu inn á skinngæruna, sem frúin að sunnan skenkti þér. Eg vildi að einhver vildi hugsa svo hlýtt til mín, þá þyrfti eg ekki að taka svona út af fótakulda eins og eg geri. — En eg held að fólk muni nú ekki eftir fátæklingum eins og henni Finnu minni."

"Ekki munu detta af því gullhringirnir, gæruskinns,greyinu, þó þú stígir á það, Geirfinna sæl. — En hvað segirðu annars í fréttum?"

"Alt heldur tíðindalítið núna í harðindunum — án þess eg viti það þó. Eg fer aldrei neitt, og enginn segir mér neitt — fólk er ekki að heimsækja kotunga eins og mig. — Eg fæ ekki heimsóknir af heldri frúm, eins og Villi volaði og Jón með nebbann. Eg geri ráð fyrir að þær rati ekki ofan í Rúnkakot, þessar fínu kvenfélags-dömur; minsta kosti lenda ekki aurarnir þeirra ofan í börnunum mínum. — Nei, eg segi ekkert í fréttum. Þú hefir auðvitað heyrt um drabbið í Holgeiri konsúls? — Nei, er það nú satt? — Það er þó á hvers manns vörum. — Eilíft fylliríi og "Bridge-partí" — rétt að eg kann að nefna það. — Maður talar nú ekki um allar sögurnar um stúlkur, sem —"

"Oft verður góður hestur úr göldum fola," sagði Þóranna hæglætislega um leið og hún mældi sokkinn.— "Þú drekkur kaffisopa hjá mér — eg held eg hafi dálítinn jólakökubita, ef eg leita vel."

"Það er nú mesti óþarfi — eg vil ekki láta þig vera að hafa fyrir því elska; eg kom ekki til að snýkja."

"Það er engin fyrirhöfn, Finna. Eg á heitt á könnunni." — Hún tók hattinn af ofninum. — "Það verður enga stund."

"Ætíð er gestrisnin þín eins, Þóranna mín. Eg segi það líka oft við fólk, að þú eigir ekki víða þinn líka — og Davíð minn segir í sama máta. Dæmalaust er þetta góð jólakaka, þó hún sé farin að þorna. — Hvernig ferðu að hita kaffi án þess að það komi upphitunarbragð að því. Eg gæti ekki fundið það, ef eg hefði ekki séð þig láta könnuna á ofninn til að snerpa á henni. — Eg þarf ekki að ætla mér að narra hann Davíð minn, hann finnur það strax og hrópar: "Kona! Þetta er upphitað!" — svc sem hann ákveður, ekki sens. — Hann er nú uppástæðilegur eins og allir, sem hafa verið á skipunum hans skipper Berg. — Nú fara þeir að róa bráðum; Davíð minn segir að þeir muni ekki þurfa að keyra langt eftir fiskinum núna, hann reki upp að landinu — norðan-garrinn. — Þú gefur ekki eftir henni móður þinni sælu með gestrisnina, — heldur ekki með iðjusemina. — Skárri er það nú bunkinn, sem þú ert búin að prjóna. Eg vildi að mín kona hefði slíka heilsu. Hvað ætlarðu annars að gera við alt þetta prjónles, ljúfan mín?"

"Selja það," svaraði Þóranna um leið og hún tók upp lykkju.

"Selja það! Gamla konan. Það er svei mér hyggilega gert." — Það hýrnaði yfir Geirfinnu. — "Þú vildir kanske selja mér eitthvað af því — mér sýnist þú hafa þarna nokkur pör af sjóvetlingum. Davíð minn fer að fara, þegar gefur. Eg býst við að þér sé sama, hverjum þú selur það, úr því þú selur það á annað borð."

"Því ekki það. Eg get alveg eins selt þér það eins og að láta það í Gummabúð. Stúlkan þar hefir selt fyrir mig hyrnur og húfur undanfarið. Eg var að hugsa um að fara ofan eftir á morgun. — Gerðu svo vel, eg hefi hérna þrjú pör — parið kostar —"

"Því miður get eg ekki borgað það eins og er — Þú veizt hvernig það er að pressa peninga út úr konsúlnum, um þetta leyti, — og þetta skitirí sem við fáum af bænum, er rétt fyrir brauði og húsaleigu. En eg skal ekki draga að borga þér það, þegar Davíð minn leggur inn fiskinn. — Hver veit nema eg geti látið þig fá lóu í soðið, svona í kaupbæti. Davíð minn er svo fiskinn. Strákarnir stríða honum á því, segja að hann sé víst í meira lagi — þú skilur! — Ha! ha! — Nei maður þarf ekki að óttast fiskileysi eftir þetta norðankast— fiskinn drífur upp að landinu."

Þóranna stundi lágt um leið og hún lagaði á sér gleraugun. — "Svona fóru þessar krónurnar," hugsaði hún. — "Í aðra átt en eg ætlaði. — Þá það — þá það."

"Eg held mér sé gott að fara að hypja mig heim; eg veit ekki hvað hann Davíð minn segir, ef maturinn er ekki til þegar hann kemur heim. — Guðlaun fyrir góðgerðirnar."

Þóranna settist við gluggann — ýtti gleraugunum lengra upp á nefið, og hélt svo áfram að prjóna með sama ákafanum. — "Undarleg breyting, er orðið hafði á Finnu síðustu tíu árin — síðan Davíð lá í lungnabólgunni,

aðra smá gripi, er tónskáldið fræga hafði borið. Telur Grainger það sína helgustu fjársjóði.

Í sjón er Grainger fríðleiksmaður hinn mesti, hárið ljósgult, augun blá og ákaflega snör, ennið hátt og limaburður allur hinn hvatlegasti, en þó látlaus. Í samræðum er hann einkar skemtilegur og fjörugur, hispurslaus, og kemur beint að hverju efni, sem á góma ber. Yfir honum er einkennilega unglegur og hressandi blær.

Hann hefir látið þess getið, að sig langaði til að heimsækja Ísland og helzt að dvelja þar vetrarlangt — einhversstaðar upp í sveit. Er vonandi að þjóð vorri megi auðnast að verða þeirrar ánægju aðnjótandi áður en mörg ár líða.



# Út úr Babýlon.

(Eftir **Isabel Ecclestone Mackey.**)

---

Þeir á mig augun hvessa,
Og önug veita svör —
Um öxl eg líta ekki má,
Né andvarp leiða' um vör!

Við förum burt frá Babylon
Hinn breiða steina-veg;
og enginn ber til Babylon
Neinn blíðleik — nema eg!

Mín móðir mjög er hrifin,
Ef mig ei horfir á;
Og andlit fráneygs föður míns
Nú felmtrar mig að sjá.

Þau báru hlekki' í Babylon,
En búin þraut sú er;
Þau bönd sín gáfu Babylon,
En bönd mín fylgja mér!

Um nætur svífur söngur
Frá svörtum tjalda-hring;
"Ó, Jórsalir! Ó, Jórsalir!"
Berst jafnvel fjöllin kring. —

Þeir kveða' ei brag um Babylon —
Þó bú þar ætti' í gær —
Né biður neinn fyr' Babylon.
Að biðja' eg sízt er fær!

Mig lýðsins þulur leit í gær,
Hann leyndarmál mitt fann,
Því helgur eldur augna hans
Mér inn að hjarta brann.

"Hvað. Baztu trygð við Babylon?"
(Eg blóðrjóð undan leit.)
"Til baka' hún horfir til Babylon,
Svo bregzt hún vorri sveit!"

Eg þögul áfram þramma,
Og þungt mitt hjarta slær!
Eg berst til Zions-borgar nú —
En brautin teygist fjær

Frá Babylon, frá Babylon!
Svo berst mitt hjarta þá
Æ lengra burt frá Babylon,
En bresta ekki má!

**J. Magnús Bjarnason.**

# Sundurlausar hugsanir.

Eftir **Jón Jónsson frá Sleðbrjót.**



Það ætti nú að vera lokið deilunum um það í ræðu og riti, meðal Vestur-Íslendinga, hvort íslenzkt mál og íslenzk þjóðernistilfinning geti lifað um lengri eða skemri tíma meðal Íslendinga, sem búsettir eru hér vestan hafs. Því máli er nú svo komið, að verklegar framkvæmdir skera þar úr málum.

Stofnun Þjóðræknisfélagsins er sá prófsteinn, sem úr því sker, hvort Vestur-Íslendingar vilja halda við og reyna að viðhalda þjóðernistilfinningu sinni og móðurmáli. Efling Þjóðræknisfélagsins og almenn hluttaka Vestur-Íslendinga í félaginu. sýnir það, að V.-Íslendingar álitu að það auki menningargildi sitt sem Canadaborgara, að halda hér við máli sínu og bókmentum, og rækta og sameina við canadiskt þjóðlíf alla sína beztu íslenzku kosti. — En veslist Þjóðræknisfélagið upp, og deyi út aftur fyrir það, að Vestur-Íslendingar eða meirihluti þeirri virði það að engu og vilji ekki styðja það og efla til framkvæmda, þá sýnir það að Vestur-Íslendingar, eða meirihluti þeirra, álitu íslenzkt mál og íslenzka þjóðkosti svo lítils virði, að ekkert sé í sölurnar leggjandi til að halda því við, og bezt sé það deyi sem fyrst út, því óblönduð ensk menning og enskir þjóðkostir séu hið eina "sanna og góða", sem vert sé að keppast eftir; öll önnur mentun og menning sé eins og snýkjudýr á Canada-þjóðlíkamanum, sem nauðsynlegt sé að eyðileggja og hrista af sér sem fyrst.

Þenna dóm kveða nú Vestur-Íslendingar upp á komandi árum, með hluttöku sinni eða hluttökuleysi í efling Þjóðræknisfélagsins, því í þessu máli, eins og öðrum framtíðarmálum, gildir hið forna spakmæli: "Sameinaðir stöndum vér, sundraðir föllum vér". Tilraunir fárra manna af vestur-íslenzka þjóðflokknum megna ekki að halda hér uppi til lengdar íslenzku máli og íslenzkri þjóðernisbaráttu og leiða það til sigurs, ef allur fjöldi Vestur-Íslendinga vinnur á móti þessu máli, annaðhvort með beinni mótstöðu eða með hluttökuleysi í þjóðræknisstarfinu. "Hver sem ekki er með mér, hann er á móti mér," er altaf sannmæli, þegar um framkvæmd mála er að ræða.

Enginn getur neitað því, að frá því Vestur-Íslendingar hófu hér landnám fyrst, hafa þeir stofnað ýms félög, er að því hafa miðað, að varðveita íslenzkt mál og íslenzka þjóðkosti, þó öll þau félög hafi haft einhver sérstök málefni að berjast fyrir, og ekki lýst hreinlega yfir því, að þjóðernismálið væri það, er þau væru að berjast fyrir. Þetta mun öllum verða ljóst, sem lesa vilja hina fróðlegu og prýðis vel skrifuðu ritgerð séra Rögnv. Péturssonar, er byrjar í fyrsta árgangi Tímarits Þjóðræknisfélagsins, um þjóð-

rœknisstarf Vestur-Íslendinga. Þegar hún er öll komin, verður öllum Íslendingum, sem nenna að lesa hana, ljóst frumbyggjastarf Vestur-Íslendinga í þjóðernismálinu. Enginn mun neita því, að það hafi borið árangur, haldið við íslenzku máli og tilfinningunni fyrir íslenzkum þjóðkostum. Þarf ekki annað en minna á, því til sönnunar, íslenzku blaða- og bóka-útgáfurnar, lestrarfélögin og kirkjufélögin. Að lesa vikulega íslenzk blöð, og eiga aðgang að íslenzkum bókasöfnum, hlýða á íslenzkar guðsþjónustur á hverri helgi, og eiga kost á íslenzkri kenslu á sunnudagaskólum, hefir verið mikilsvert lífsviðhald íslenzkunni hér vestan hafs, þó stofnun slíkra félaga hafi á yfirborðinu verið til að efla þekking Vestur-Íslendinga á þjóðhögum hér og innræta þeim kristindómshugmyndir.

Eg heyrði einu sinni íslenzkan mann heima á Íslandi spyrja enskan mann að því, hvernig hann ætti að fara að því, er hann kæmi til Englands (hann ætlaði þangað), að verða sem fyrst "innlifaður málinu" (hann orðaði það svo). "Farðu sem oftast í kirkju og á leikhúsin," var svar Englendingsins. Hann hafði næma tilfinning fyrir því, að það gerði málið lifandi í huga þess, er á hlýddi, þegar hann heyrði, á hverju máli sem væri, talað um það, sem mest hrifi á tilfinningarnar, og honum væri ef til vill hjartfólgnast. Og er það í samræmi við skoðun þá, er hinn mikli andans maður Dana, Grundtvig, sagði:

"Móðurmálið á hjartans hreim
sem hljómur, er útlend tala." (M. J.)

Og nú er Þjóðræknisfélagið stofnað, hefir dregið á stöng hreinan fána, lýst yfir því, að það vilji vinna að því að vernda íslenzkt mál hér vestan hafs, auka þekkingu á íslenzkum bókmentum, reyna að efla sambandið við íslenzku þjóðina heima og gera það hlýrra og víðtækara, og stuðla að því að Vestur-Íslendingar verði sem beztir Canadaborgarar, meðal annars með því, að halda við sínum beztu íslenzku kostum og beita þeim til eflingar því, sem bezt er í canadisku þjóðlífi, og jafnframt að auðga og efla rækt Vestur-Íslendinga til Íslands og hinnar íslenzku þjóðar. — Eru þeir margir í hópi Vestur-Íslendinga, sem geta sagt það af sannfæringu, að þetta hlutverk sé göfugt hlutverk?

Í ágætis ritgerð um þjóðar-arf og þjóðrækni, í 1. árgangi Tímarits Þjóðræknisfélagsins, eftir séra Guttorm Guttormsson, er svo að orði kveðið:

"Það er einmitt framtíðin, sem aðallega er um að hugsa í sambandi við þetta mál, um viðhald vestur-íslenzks þjóðernis. Fyrir hana gerum vér það, sem gert verður í þessu máli, og það ,sem vér látum ógert, verður hennar tap. .... Hvort sem fyrir oss liggur að hreppa hagstæð veður eða mótvinda, þá er svo mikið víst, að ef vér leggjum árar í bát nú og tökum ranga stefnu, þá er öll von úti."

Eg hefi leyft mér að endurtaka hér þessi orð séra Guttorms, því þau eru eins og góðu vísurnar, sem ekki verða of oft kveðnar. Ef við viljum, sem þjóðflokkur, halda við þjóðar-arfi okkar hér vestan hafs, þá verðum við að hugsa um **framtíðina**; við verðum

að horfa **áfram** og **stefna upp á við — stefna rétt.**

Og nú, þegar Þjóðræknisfélagið er stofnað, þá finst mér sú spurning ætti að vaka á vörum allra Vestur-Íslendinga: Hvað getur Þjóðræknisfélagið gert til að framkvæma hugsjón þá, er það hefir lýst yfir, að það sé stofnað til að koma í framkvæmd? Og sú spurning má ekki vera borin fram einungis af Tómásunum, sem ekki trúa á neina samvinnu, fyr en þeir hafa þreifað á því, að hún sé til hagnaðar. Spurningin verður að vera borin fram af öllum, sem málinu unna, borin fram af innilegri löngun til að geta svarað henni rétt, fyrst í orði og svo í framkvæmdum.

Við Vestur-Íslendingar höfum átt því láni að fagna, að heimaþjóðin íslenzka hefir þegar í byrjun þessa félagsskapar rétt okkur hlýja systkinahönd, og þegar í byrjun stutt þenna félagsskap okkar, ekki aðeins í orði. heldur einnig í verki, með því að senda okkur einn af ágætustu sonum Íslands, til að ferðast hér um og halda fyrirlestra um íslenzkar bókmentir og íslenzka þjóðkosti — og íslenzka málfegurð. Og það eru ekki einungis fáeinir menn, sem standa á bak við þessa styrkveiting. Öll íslenzka þjóðin hefir lýst yfir ánægju sinni yfir þessum félagsskap, og löngun sinni til að styrkja hann, með því að þing og stjórn þjóðarinnar íslenzku veitti þjóðræknisfélaginu íslenzka álitlegan styrk, og það félag var stofnað samhliða Þjóðræknisfélaginu hér, með því markmiði, að efla og glæða vináttu og systkinaböndin milli heimaþjóðarinnar og Vestur-Íslendinga.

Það hafa komið fram deildar skoðanir um það, hvernig Þjóðræknisfélag Vestur-Íslendinga ætti að haga störfum sínum, til að koma hugsjón sinni í framkvæmd. Þær raddir hafa komið fram, sem talið hafa heillavænlegt, að félagið bygði stórhýsi, sem gæti verið aðsetursstaður íslenzkra þjóðernisstarfa. Þar væru haldnar allar aðalsamkomur og fundir, sem Þjóðræknisfélagið ætti frumkvæði að að halda. Þar væru skrifstofur þess, og Íslendingar, sem að heiman kæmu, ættu þar kost allra þeirra upplýsinga og leiðbeininga, sem þeir óskuðu að fá. Og það hefir komið fram skoðanamunur um það, hvort þessi stórbygging ætti að vera í Winnipeg, eða á Gimli. — Þetta er fögur hugmynd og væri Vestur-Íslendingum til sóma, ef henni væri myndarlega í verk komið. En ekki hefi eg getað að því gert, að það hefir komið í mig dálítill kvíðahrollur um framtíð félagsins, ef byrja ætti á þessu stórvirki. Eg hefi efast um, að þjóðernistilfinning Vestur-Íslendinga væri svo samtaka, svo heil og svo vel vakandi alment, að þessu stórfyrirtæki yrði í framkvæmd komið, svo að sæmd væri að, eins og nú er högum háttað hér hjá okkur. Ef til vill er eg svona hugdeigur af því eg hefi ekki milli handa "afl þess er gera skal", og finn eg gæti ekki lagt þeirri hugmynd það lið, sem eg vildi, og eg óttast að svo sé um altof marga, að þeir myndu ekki, af ýmisleitum ástæðum, geta eða vilja leggja það lið, sem þyrfti, í þessu efni. En þó eg hafi þessa skoðun, þá skyldi það engan gleðja meira en mig, ef þeir, sem andstæða skoðun hafa, gætu sýnt það í verkinu, að auður og atorka og einlæg þjóðernistilfinning héldust svo í hendur hjá Vestur-Ís-

lendingum, að þeim væri hvorki þetta né annað ómáttugt, sem verið gæti þjóðernistilfinningu þeirra sem mestur vegsauki og styrkur. Og sjálfsagt tel eg, að þetta ætti að vera framtíðarhugsjón þjóðrækinna Vestur-Íslendinga. En eins og nú hagar til, tel eg Þjóðræknisfélagið, með því litla afli, sem það hefir ennþá, hafa byrjað hyggilega, að reyna að auka og glæða þekkingu á þjóðhögum Íslands og bókmentum, með útgáfu Tímaritsins, og reyna að auka og glæða þekkingu á íslenzku máli, með kenslu í íslenzku, einkum í bæjunum, því þar er þess allra mest þörf.

Hlýtt vináttusamband milli einstaklinga byggist ætíð á náinni þekkingu á hvors annars manngildi. Fáir sækjast eftir nánu sambandi við þá, er þeim finst ekkert manngildi hafa, og gildir sama regla þar um heilar þjóðir sem einstaklinga. Þess vegna er svo nauðsynlegt að þjóðflokkar, sem bindast vilja hlýjum vináttuböndum, fái sem bezta þekkingu hvor á annars þjóðhögum, andlegum og verklegum, og læri sem bezt að meta hvor annars kosti. Auðsæld sú, er mörgum Vestur-Íslendingum féll í skaut eftir að þeir komu vestur, samanborið við það, sem heima var, kastaði einhverri glýju um tíma á augu margra þeirra, svo þeim sýndist alt, sem íslenzkt var, svo smátt, að það væri ekki þess vert að kynna sér það, og þó þeir bæru í brjósti rækt til íslenzku þjóðarinnar, þá var sú rækt mestmegnis vorkunnsemi, vildu hjálpa með gjöfum ættbræðrum sínum, sem ekki gætu lifað sómasamlega og byggju á því landi, sem ólifandi væri á. En þó nú vorkunnsemin væri ekki vel löguð til að vekja virðing og ást til íslenzku þjóðarinnar heima, í heild sinni, eða til að skapa óhlutdræga skoðun um kosti og ókosti Íslands, þá er hin ósérplægna hjálpsemi margra hér, við fátæka innflytjendur frá Íslandi, fagur vottur um drengskap Vestur-Íslendinga. Frá því að líta smáum augum á alt íslenzkt, voru altaf heiðarlegar undantekningar, menn, er kunnu að meta andlega og verklega kosti Íslendinga, sáu gallana á þjóðlífi þeirra og víttu þá, en kunnu líka að meta kostina og fundu, hvers virði íslenzkar bókmentir voru að fornu og nýju, jafnt fyrir Vestur-Íslendinga og heimaþjóðina. Nú hin síðari ár hefir þessi skoðun um lítisvirði alls þess, er íslenzkt heiti ber, töluvert horfið. Vestur-Íslendingar sjá nú marga kosti lands og lýðs, sem þeim voru áður huldir. Þeir sjá nú, að landið hefir ýmsa kosti og auðsuppsprettur, sem legið hafa ónotaðar fyrir framtaksleysi þjóðarinnar, sem var lömuð af óhagstæðu stjórnarfari, sem deyfði framtakssemi hennar og ábyrgðartilfinningu. Nú sjá Vestur-Íslendingar að þjóðin er vaknandi þjóð, andlega og verklega. Og þeim fjölgar óðum, er skoða heimaþjóðina sem verðugan keppinaut Vestur-Íslendinga, um það að auka orðstír íslenzka þjóðflokksins. Sú skoðun þarf að aukast og eflast, og sú hlýja löngun beggja þjóðflokkanna, að taka höndum saman í hverju því, sem kostur er á. Eg vona að þjóðræknisfélögin bæði hér og heima, verði góður liðsauki í þessu efni, ef þau fá alment og einhuga fylgi bæði heima og hér. Hlutverk þeirra verður eflaust mest að treysta andlega sambandið; en verði það sem traustast, getur af því leitt ýmislegt gott og

nytsamt í verklegum framkvæmdum. Með nánu sambandi geta Íslendingar heima öðlast héðan mikla verklega þekkingu, og til að halda við þjóðernistilfinning okkar þurfum við hér vestra mikinn andlegan forða frá Íslandi. Það verður hlutverk þjóðræknisfélaganna, að leiða þessa tvo strauma í heppilega farvegi. Og eitt af því er, að stuðla til þess, að töluvert meiri mannaskifti yrðu milli þjóðflokkanna en verið hefir.

Eg vildi benda á eina skoðun, sem skotið hefir verið fram lauslega, um aukið bókmentasamband milli Íslendinga heima og hér vestra. Og það er að Bókmentafélagið íslenzka stofnaði hér vestra útbú eða deild af félaginu. Eg ætla að það væri Þórhallur biskup, sem lauslega skaut fram þeirri tillögu, og bið eg afsökunar á, ef það er ekki rétt hermt. Eg hygg það gæti verið mikill styrkur íslenzku bókmentalífi hér vestan hafs, ef félagið sæi sér fært að stofna hér deild. Það myndu eflaust miklu fleiri ganga í félagið hér vestra, ef hér væri deild af því með sérstakri stjórn, sem ynni að því að útvega fleiri félagsmenn. Svo á félagið ákaflega mikið af ágætum bókum óselt frá fyrri árum, sem eg tel víst að myndu seljast hér að mun, ef þær væru hér á boðstólum, með því lága verði, sem á þeim er, samanborið við núverandi bókaverð. Auk þess gæti félagið þá, betur en nú er, átt þátt í því að gefa út bækur vestur-íslenzkra höfunda, sem væri mikilsverð hvatning fyrir þá Vestur-Íslendinga, sem leggja vildu stund á að rita bækur á íslenzku, því það fer ekki ætíð saman, hæfileikar til ritstarfa og auðmagn til að kosta útgáfu bóka. Eg býst við að mér verði svarað því, að það væri ekki samræmi í því, þegar Bókmentafélagið hefir efir langa baráttu, fengið félagið flutt inn í landið alveg og lagða niður deild þess í Kaupmannahöfn, að það færi þá að skapa aftur erlenda deild af félaginu. En hér til er því að svara, að það er ekki mín hugsun, að stjórn Bókmentafélagsins sleppi neinu af valdi sínu yfir félaginu. Deild sú, er hér væri stofnuð, væri að öllu undirgefin íslenzka Bókmentafélaginu, aðeins útbú þess, til að ná betri tökum á bókmentalegri sameiningu við Vestur-Íslendinga. Bókmentafélagið er og á að vera al-íslenzkt félag; og því sýnist ekki óeðlilegt, að það starfaði, sem slíkt, að einhverjum hluta, þar sem búsettur er líklega nærri fjórðungur íslenzku þjóðarinnar. Það er ríkt félag, á íslenzkan mælikvarða, og mundi vel geta efnalega ráðist í að stofna deild hér, ef að félagið áliti, að það yrði bæði til að efla félagið og til að efla íslenzkar bókmentir í heild sinni, og sérstaklega meðal Vestur-Íslendinga. Eg hefi því minst á þessa tillögu hér, ef vera kynni að þjóðræknisfélögin, bæði heima og hér vestra, vildu taka að sér að koma þessu máli í framkvæmd, ef þeim þætti tillagan þess verð, að berjast fyrir henni til sigurs; því þau myndu framar öðrum standa vel að vígi til að hafa áhrif á þetta mál; og það er samkvæmt stofnskrá þeirra, að sameina og efla bókmentalega starfsemi heimaþjóðarinnar og Vestur-Íslendinga.

Vestur-Íslendingar hafa í þjóðernismálinu skipast í þrjá flokka, og hefir skifting þessi berlegast komið í ljós við stofnun Þjóðræknisfélagsins. Í fyrsta flokknum eru þeir, sem vilja af

öllu megni stuðla að því, að viðhalda hér íslenzku máli og íslenzkri þjóðrækni, meðan kostur er á; og að þessu vinna þeir með fullri sannfæring um, að það auki menningargildi sitt sem Canadaborgara, að missa ekki sína þjóðlegu íslenzku rót. — Í öðrum flokknum eru þeir, sem telja það landráðum næst við Canada, að vera að hugsa um nokkuð íslenzkt; bezt sé að sópa því öllu burt úr huga sínum og höllum sem allra fyrst. En tiltölulega fáir eru þeir, sem koma opinberlega fram með þessa skoðun. — Í þriðja flokknum eru þeir, sem að vísu unna Íslandi og íslenzkri þjóðmenning, en hliðra sér hjá að taka þátt í nokkrum samtökum til viðhalds íslenzku máli og íslenzkri þjóðernistilfinning, annaðhvort af skorti á nógu heitri sannfæring, eða þessari óbeit og tortryggni á öllum félagsskap, er til samvinnu horfir, sem er ættarfylgja Íslendinga, fylgir þeim sem vofa frá niðurlægingartímabili íslenzku þjóðarinnar, og sem afar örðugt er að kveða niður hjá hinni íslenzku þjóð. — Fyrsti flokkurinn, sem hér er talinn, eru þeir menn, er vinna hér að efling Þjóðræknisfélagsins, og hlutverk þeirra er, að vinna á sitt mál þá, sem taldir eru í þriðja flokknum. Í honum eru margir mætir menn hér og miklir starfskraftar, sem hjálpað gætu að leiða þjóðræknismálið til sigurs, ef þeim væri beitt í þarfir þess. — **Vestur-Íslendingar verða að skipa sér í tvo flokka í þessu máli,** vera ekki veilir og hálfir. Það er þjóðernisleg skylda þeirra sem góðra Íslendinga, er ekki vilja sýna fyrirlitning ættstofni þeim, sem þeir eru af runnir, og sem góðra Canadaborgara, er að öllu því vilja hlynna, er aukið gæti menningu Canadaþjóðarinnar, en hrinda úr vegi öllu því, er stendur í vegi fyrir menningu hennar, því það er aldrei of mikil áherzla á það lögð, að **ef** það stendur í vegi fyrir canadiskri menningu, eins og einstöku menn vilja halda fram, að læra íslenzkt mál og rækta hér íslenzka þjóðkosti og sameina þá canadiskum þjóðkostum, þá eru Vestur-Íslendingar að svíkja þjóðlega skyldu sína sem Canadamenn með þjóðernisviðhaldinu, og þá er öllu því afli, sem til þess er varið, á glæ kastað, og öllum þeim hundruðum þúsunda dala, sem verið hefir varið til íslenzkra bókakaupa og íslenzks félagsskapar, svift frá canadisku þjóðheillastarfi. En **ef** öll þessi viðleitni, að halda við íslenzku máli, íslenzkum bókmentum og íslenzkum þjóðkostum hér vestra, og færa þessa menning, þessa þjóðkosti inn í canadiskt þjóðlíf, ef hún eykur menningargildi Íslendinga sem canadiskra borgara, þá erum við að ræna canadiska þjóðlífið mikilsverðum fjársjóð og menningarafli, ef við látum íslenzkt mál, íslenzka bókmentaþekking og íslenzka þjóðkosti deyja hér út, fyrir dáðleysi og samvinnuskort. Við erum þá að svíkjast um að efla hjá okkur það, sem gerir okkur að betri Canadaborgurum. **Hér er verið að tefla um það, hvort Vestur-Íslendingar eigi nokkra þá þjóðkosti, sem einhvers virði sé að þroskist í canadisku þjóðlífi.** En þjóðkostir geta ekki lifað og orðið að starfandi afli, nema þeir fái áframhaldandi næringu frá þeirri rót, sem þeir eru af sprottnir, og andlegt samband við heimaþjóðina er það gróðrarafl, sem viðheldur og endurnýjar

starfsþolið til að halda við þjóðkostunum.

En hversu mikilsvert starf sem Þjóðræknisfélagið getur af hendi leyst til að viðhalda hér íslenzku máli, íslenzkum bókmentum og hlýju sambandi við heimaþjóðina, ef Vestur-Íslendingar styrkja það alment, þá má því aldrei gleyma, að viðhald íslenzks þjóðernis og viðhald íslenzkrar tungu hér vestan hafs á altaf styrkustu stoðina í starfi einstaklinganna og hvers heimilis, sem íslenzkt er. Ef hætt er að tala íslenzku hversdagslega á al-íslenzkum heimilum, hætt að lesa íslenzkar bókmentir, hætt að kenna börnunum að lesa íslenzku, jafnframt því að þau læri sem bezt enskuna, þá er öllum íslenzkum þjóðernistilfinningum hér bani búinn, hvað mikið sem Þjóðræknisfélagið reynir að starfa.

Og eitt vil eg að endingu minnast á. Það er, hve afar nauðsynlegt það er fyrir viðhald íslenzkrar þjóðernistilfinningar, að börnin læri íslenzk ljóð. Það er ömurlegt tímanna tákn hjá Vestur-Íslendingum, hvað óðum fjarar út sú tilfinning að læra og lesa íslenzk ljóð, ekki sízt hjá æskulýðnum, þó heiðarlegar undantekningar finnist, sem betur fer, í því efni. Ljóðlistin er skrautbúningur málsins, og sönglistin hátíðabúningur ljóðlistarinnar. Allir íslenzkir foreldrar, sem þjóðerni sínu unna, ættu, um fram alt, að kenna börnum sínum að lesa og læra íslenzk ljóð. Og hinir mætu menn hér, sem gera það að lífsstarfi sínu að kenna sönglist, gætu hér miklu um þokað, með því að láta íslenzka nemendur syngja íslenzk ljóð, jafnhliða öðrum fögrum ljóðum; og það er gleðilegt til þess að vita, að margir þeirra gera það líka. — Eitt af aðaleinkennum íslenzku þjóðarinnar frá byrjun hefir verið það, hvað hún hefir verið ljóðelsk, og þessi eiginleiki hefir átt mikinn og góðan þátt í því að gróðursetja í íslenzku þjóðlífi margt drengilegt, hreint og fagurt; og hverfi ástin til ljóða úr íslenzkri þjóðarmeðvitund, hvort heldur er austan hafs eða vestan, þá er stórt skarð höggvið í þann múr, sem verndar fagrar, hreinar og drengilegar hugsanir í þjóðlífinu. Ekkert hefir meiri áhrif á tilfinningalíf æskumannsins, en að lesa og læra fögur ljóð, og ekkert er betri vörn móti því, að sorglegar hugsanir festi rætur í huga æskumannsins. — Íslenzku þjóðinni hefir ástin til ljóða verið ómetanlegt andlegt lífsviðhald, þegar mest krepti að, og sterk lyftistöng, þegar endurreisn hennar byrjaði. Um ljóðlistina íslenzku má eflaust segja hið sama og séra Matthíias sagði um málið íslenzka:

"Það hefir voða þungar tíðir
þjóðinni verið guðleg móðir,
hennar ljós í lágu hreysi,
langra kvelda jólaeldur,
hennar brjóst við hungri og þorsta,
hjartaskjól, þegar burt var sólin."

Íslenzkir foreldrar! Kennið börnum ykkar öll hin fegurstu íslenzku ljóð. Lestur þeirra og söngur glæðir fagrar og hreinar hugsanir í barnshjartanu.

Það, sem mér hefir virzt vaka fyrir þeim, er barist hafa fyrir því, að íslenzku máli, íslenzkum þjóðkostum og íslenzkri þjóðernistilfinning væri haldið við meðal Vestur-Íslendinga, er í stuttu máli þetta:

Vestur-Íslendingar eiga móðurmál, bókmentir og þjóðkosti, sem gera okkur að betri Canadaborgurum, ef við höldum því við og eflum það.

Allir Vestur-Íslendingar þurfa því að læra, jafnhliða enskunni, hið íslenzka móðurmál sitt, og lesa alt hið bezta í íslenzkum bókmentum, samhliða því bezta úr enskum bókmentum.

Vestur-Íslendingar mega eigi sleppa að leggja rækt við þá íslenzku þjóðkosti sína, sem auka manngildi þeirra, og jafnframt leggja stund á að tileinka sér þá þjóðkosti Canadaþjóðarinnar, sem gera þá að nýtari mönnum.

Vestur-Íslendingar mega ekki ala í brjóstum sér fordóma, hvorki fyrir því sem íslenzkt er eða canadiskt, en reyna að gróðursetja í huga sínum alt hið bezta, er báðir þessir þjóðflokkar hafa til brunns að bera.

Stefni Vestur-Íslendingar að þessu takmarki, rennur saman í þroska þeirra alt hið bezta úr báðum þjóðflokkunum, og þeir verða góðir Canadaborgarar. Og hver er sá af hugsandi Vestur-Íslendingum, sem ekki vill að því styðja?



# Kvæði og kvæðabrot.

Eftir dr. **Björn Bjarnarson** frá Viðfirði.

## Við sæinn eg hvíldi.*)

Við sæinn eg hvíldi og sagði' 'onum hljótt
frá sorgunum mínum.
Hann létti mér harmana ljúflega' og rótt
með ljóðunum sínum.

Og víðförlum sagði' eg vindinum frá,
hve verkjuðu sárin.
Hann strauk mér um vangana þýðlega þá
og þerraði tárin.

---

*) Í bréfi til frændkonu sinnar, Mrs. Ó. Hallson, er lánaði Þjóðræknisfélaginu þessi kvæðabrot, segir höf. meðal annars um þetta kvæði:
"Ekki skaltu halda, að það sé skoðun mín á mönnunum, sem þar kemur fram; hún er alt önnur. Eg hefi margt gott og fátt ilt frá mönnunum að segja eftir minni reynslu. Þeir hafa verið mér margfalt betri en eg á skilið. Olnbogaskotið til þeirra í kvæðinu er augnabliks ólundarvæl, eða ef til vill öllu fremur óraunverulegt tízkuoffur.'

Frá sorginni köldu, er sveið mér í óð,
eg sólunni hermdi.
Hún hló mér í augu svo hlýleg og góð
og hjartað mér vermdi.

Og manninum hermdi' eg frá hugarins þraut,
er harðlega þjáði.
Hann gaut við mér augum og gekk þegar braut
og glotti í háði.

"Ó, mætti eg hvílast við móðurbrjóst þitt!"
eg moldina beiddi.
Hún tók mig í faðm sinn og svæfði mig blítt
og sorgina deyddi. —

---

## Um hjúkrunarkonu.

Sigga er sem tröllin trygg,
tvístan huggar, dreifir ugg.
Hryggjarvana hér eg ligg;
horfa skuggar inn um glugg.

---

## Andfælur.

Hvað kvað við í dimmunni, drottinn minn? —
Deyjandi skelfingarómurinn!
Ó, minn elskaði drengur.
Holskeflan stríða í hafinu skall.
Eg heyrði hans síðasta angistar kall;
Þá hrökk mér í hjartanu strengur.

---

Aldrei skal eg æðrast, þó að yfir taki.
skín mér sól að skýja baki.

## Langt undan löndum.

Langt undan löndum, á bak við himinhring
minn hugur á sér eyjar með sólblik alt í kring.
Hamrarnir skuggbrýnir horfa' á djúpan sæ,
Þar hljóður sit eg löngum og varpa möl á glæ —
langt undan löndum. —

---

## Um stúlku.

Þig langaði' að hnýsast um, heillin mín góð,
í hjartakytrunni minni.
Nú verðurðu að dúsa þar, forvitna fljóð,
þótt falli þér illa þar inni.

Þar geturðu yðrast syndanna' og sýnt
sannhelgan lifnað í friði.
Fyrir lang-langa-löngu' hef eg lyklinum týnt
og lásinn er stamur af ryði.

---

## Spinn, Spinn! —

(Þýtt.)

1. Snúðfögur snældan rann,
snótin unga grét og spann.
Fjarri heyrir fuglaklið,
fossaþyt og bárunið.

2. Menn sækja mína tó,
mig vill enginn sækja þó.
Árin líða, æskan dvín,
aldrei nokkur biður mín.

3. Spinn, spinn, spinn, dóttir dýr;
dyrnar senn þinn biðill knýr.
Tárug spinnur sætan svinn,
samt kom aldrei biðillinn.

---

# Nýjar stefnur.

(Lausir drættir.)

Eftir **Jón Björnsson.**

I.

Ef það er satt, að Guð hafi í öndverðu boðið mönnum að margfaldast og uppfylla jörðina, þá er ekki ólíklegt, að hann hafi jafnframt boðið þeim að láta aldrei stein yfir steini yfir steini standa í lífsskoðunum sínum og skilningi á sjálfum sér og tilverunni. Mennirnir hafa hlýtt þessu mikla boði. Þeir hafa aukist og margfaldast. En það er ekki hið undursamlegasta í fari þeirra. Þeir hafa líka **fækkað sjálfum** sér við og við. Síðustu sex árin hafa þeir verið seinþreyttir við að lífláta hverjir aðra. Það er því annað en fjölgunin, sem er dásamlegt við mennina. Það eru hin eilífu umskifti í hugsanalífi þeirra, lífsskoðunum, trú.

Það er ekki nægilegt að segja, að hver öld byrji með nýrri lífsskoðun eða lífsstefnu. Hver áratugur getur talið sér það til gildis, að einhverntíma hafi fram komið á honum drög til nýrra strauma í andlegri sögu mannanna, byrjun til einhverrar óþektrar hreyfingar á trúar- eða listasviðinu, bjarmi af upprennandi sól einhverrar nýrrar lífsstefnu eða lífsskoðunar. Saga mannsins er saga umbreytinganna, umskiftanna, fæðinganna, með öllum byltingum þeim og breytingum, sem þeim fylgja.

Síðustu tímar eru, ef til vill, enn tilþrifameiri í þessum efnum en undanfarnir áratugir.

Þegar fyrir styrjöldina þóttust menn sjá, að trúar- og lífsskoðun, minsta kosti Norðurálfu-þjóðanna, væri að taka stakkaskiftum. Strax eftir aldamót fór að braka í byggingum efnishyggjunnar. Og smátt og smátt urðu þeir brestir meiri og þyngri. Og loks fór öll sú kuldalega bygging að riða til. Hver ný stefna, sem þá kom fram, gróf grunninn undan henni. Efnishyggjan hafði getað friðað menn í svip. En er verulega tók að reyna á lífsgildi hennar, máttinn til að fullnægja eilífðarþrá mannanna, reyndist hún fánýt. Og þá spruttu jafnframt fram nýjar lindir, bæði í listum og einkum í trúarefnum. Og dagar þeirrar stefnu voru þá að mestu taldir.

Svo kom styrjöldin.

Engin sex ár hafa farið jafn umsteypandi atburðum um þjóðlífin og þau. Og enginn jafn stuttur tími hefir skapað eins sára þrá í mannkyninu eftir andlegum verðmætum. Efnisverðmætin hafa brugðist svo gersamlega. Það sem tignað var mest, er nú orðið harla lítils vert. Það sem áður var álitinn grundvöllur undir þjóðskipulagi, hefir sýnt sig vera hverfult og brigðult eins og sandrokið. Lífs-

skoðanirnar hafa umsteypst. Áhugamálin hafa beinst í alt aðra átt. Beztu langanir mannanna leita sér nú fullnægju á andlegri svæðum en áður.

Aldrei hafa menn því verið fjarlægari efnishyggjustefnunni en nú. Menn eru hættir að trúa eingöngu og skilyrðislaust á hið áþreifanlega, á efnið. Hugirnir hafa sveigst frá hinu hlutræna að því hugræna, að trúnni á andann, sálina, á guð í mannsálinni yfir öllu efni og áþreifanleik.

Hvergi kemur þetta þó skýrara fram en í skáldskaparstefnu þeirri, sem nú er ríkjandi meðal nágrannaþjóðanna. Það er ekki efnisdýrkunin, sem þar situr í öndvegi. Athyglinni er allri beint að hugrænum efnum. Yrkisefnin eru straumar og bylgjubrot mannsandans, ljósblik og blæbrigði hins innra lífs — alt í raun og veru lofsöngur til andans, bannfæring á efninu og hinu ytra lífi; það er leitandi flug inn í ódáinsheima mannssálarinnar, bersýnileg þörf á einhverjum grundvelli þar.

Vitanlega tók að bóla á þessari stefnu fyr en nú á síðustu árum. Hún hefir legið í lofti um all-langan tíma. Ljóðskáldin voru að verða **lyrísk** aftur. Skáldsagnahöfundarnir að snúa sér að sálarlífinu meira en þeir gerðu meðan realisminn sat í öndvegi. Og leikritaskáldin, þau, sem nokkurs eru verð, taka nú til meðferðar mannssálina oftar en storma og byltingar þjóðlífsins.

— Það eru áhrif þessarar öldu, sem nú eru auðséð í skáldskap okkar Íslendinga; áhrif, sem gert hafa vart við sig frá því á fyrra tugi þessarar aldar.

Við komumst ekki hjá því, Íslendingar, nú fremur en áður, að fylgjast með andlegum stefnuskiftum og straumhvörfum þjóðanna. Undiröldur brimrótsins, sem svellur meðal nágrannaþjóðanna, ná altaf norður að ströndum vorum. Þær ýta við okkur og merkjast oft furðu fljótt, vegna þess hvað þjóðlífið er lítið og grunnsævið andlega mikið. Skáldskapur vor er því nú á sama ferlinum og annara þjóða. Hann er að breytast og mótast af lífsskoðununum, verða andlegri, fjarlægjast yfirborðið og leita inn.

## II.

Þeir, sem veitt hafa eftirtekt yngstu ljóðabókunum íslenzku, munu hafa tekið eftir því, að í þeim kennir nokkurs annars efnis og búnings en í bókum þeirra, sem settu svip á skáldskaparlíf vort fyrir og eftir aldamót.

Stefnubreytingarnar og straumhvörfin eru oftast fyrst sýnileg í ljóðagerðinni. Ljóðskáldin boða að jafnaði fyrst það, sem á að koma og er að koma. Þau sýnast næmust fyrir öllum veðrabrigðum hins andlega lífs. Og skáldin okkar eru ekki háð neinni undantekningu í þessu efni. Ljóðskáldin okkar sýna það á undan hinum, sem fást við sögugerð, að augljóst er aðstreymi nýrra linda í skáldskap vorn, sem setur á hann nýjan blæ og fyllir hann endurfæðandi lífi.

Það er **lyrikin,** kendar ljóðagerðin, sem er að ná fótfestu í kvæðagerðinni. Þunga formið og ólistrænu yrkisefnin eru að þoka fyrir mýkra og léttara formi og listrænni og fegurri yrkisefnum.

Þó verður ekki sagt, að ættjarðarljóð, kvæði um fornaldarhetjur, náttúrulýsingar, episk ljóð og söngvar um

þjóðfélagsmál, séu ófögur yrkisefni. En þau eru of þung í vöfum til þess að umgerðin um þau verði lyrísk — hættirnir verða þungstígir og þreytandi. Og þau þurfa snildar-meðferð til þess að ná inn að hjartarótum þjóðarinnar — til þess að lifa. Þessi ljóð verða altaf dægurflugur, bundin við tímann, sem þau eru ort á, háð atburðunum, sem þau eru um. Þau hafa meira gildi sem skuggsjá áhugamála og atferlis manna fyrir nokkrum árum en listgildi.

En um þessi efni ortu skáld vor alt fram að aldamótum og lengur. Og þau voru í innilegasta samræmi við sína tíma. Ekkert þeirra sagði viðurkendum skoðunum þjóðfélagsins stríð á hendur. Bardagagnýrinn var á þeim tíma, sem hér er talað um, horfinn úr strengjum eina bardagaskáldsins, sem við höfum átt á síðari öldum. Þorsteins Erlingssonar. Þau voru öll í samræmi við umhverfið og áttu allar sínar rætur í samtíðinni. Áhugaefni hennar snerust um hið ytra líf. Yrkisefni skáldanna sveigðust að því sama.

En nú beinist athygli ungu skáldanna að ýmsu öðru. Í stað þess, að fyrirrennarar þeirra leituðu mestmegnis **út í lífið**, hið opinbera og áþreifanlega, ljóða þeir að jafnaði **um hið innra.** Þeir leita inn. Tilfinningar, ástríður, eldsumbrot sálarinnar, eru þeim tömustu yrkisefnin. Þau leggja ekki leiðir sínar um þjóðmála-akurinn. Þau troða þar engar slóðir. Jörðin er þeim ekki mikils virði. Þau kunna betur við sig á flugi um himna og heima mannlegra tilfinninga. Þau yrkja ekki eggjanaljóð eins og eldri skáldin. Alla vafninga og vafstur hins opinbera lífs láta þau afskiftalaust. Í því er, meðal annars framförin fólgin. Því ljóðagyðjunni er ekki ætlað að standa í því skarnkasti.

Ástin er og áberandi þáttur í ljóðagerð yngstu skáldanna. Þau elska svo að logar af hverju orði í ástakvæðum þeirra. Gömlu skáldin unnu að vísu konum líka. En þau lýstu þeirri ást á alt annan hátt. Þau breiddu oftast einhvern ógagnsæjan hjúp yfir hana. svo lýsingin misti einatt marks. Eldurinn, sem átti að braka og gneistra í kvæðinu, varð stundum hálf-volg eimyrja. Og myndirnar, sem brugðið er upp í þessum kvæðum, eru að jafnaði líkamlegar, holdlegar. Þær eru af þrá og þörfum líkamans. Þær eru þröngar, ná sjaldan inn til sálarinnar og rúma ekki neitt utan við augnabliks þarfir þess, sem yrkir. Kvæðin sýna sjaldan samstilling ástarinnar við aðrar lífskendir skáldsins. Það er eins og tengsl þess við aðra menn, náttúruna og guð hafi slitnað. Með þessu verður hálfsögð sagan. Því ástin þrengir ekki svið tilfinninganna.

Þetta verður ekki sagt um hin yngri skáld. Þau segja hispurslaust og ótvírætt, að þau elski. Þau einskorða ekki myndirnar og lýsingarnar við eina persónu. Þau taka himin og jörð, Guð og aðra menn með í lýsingarnar:

Ást mín fær aldrei fölnað,
því eilíft líf mér hún gaf.
Aldirnar hrynja sem öldur
um endalaust tímans haf.

Aldir og andartök hrynja
með undursamlegum nið;
það er ekkert í heiminum öllum
nema eilífðin, Guð, — og við.

Sig. Nordal.

Þau hlæja og gráta í sömu andránni,

þegar þau segja frá unaði þeim, er ástin veitir þeim:

Jeg var fölur og fár,
jeg var fallinn í döf.
Jeg var sjúkur og sár
og jeg sá aðeins gröf.

— — — — — — —

Jeg á gæfunnar gull,
jeg á gleðinnar brag.
Tæmi fagnaðar full.
Jeg get flogið í dag.

Jeg á sumar og sól,
jeg á sælunnar brunn
og hin barnsglöðu bros
og hinn blóðheita munn.
Stefán frá Hvítadal.

Og þau hvísla heilögum lotningarorðum um hana að öllum heiminum og draga ekki dulur á neitt:

Saman okkar sálir runnu.
Sama hjarta í báðum sló.
Af sama eldi augun brunnu,
en allar taugar skulfu af fró.
Heitar varir eiða unnu
í unaðsfullri sæluró.

Enginn sveinn í æsku sinni
auðugri né sælli var.
Eina nótt af æsku þinni
í örmum mínum þig eg bar.
Eg var Guð í gleði minni
og gaf þér allar stjörnurnar.
Davíð Stefánsson.

Ungu skáldin eru altaf **gagntekin** af eldi og unaði ástarinnar, hvort sem þau hlæja eða gráta, hvísla eða hrópa. En flest ástljóð sumra eldri mannanna bera vott um, að þeir hafa ekki lifað allir með í ástarlýsingunum. Það er eins og hjartað hafi ekki altaf vitað um, hvað tungan talaði. Kvæðin vantar sannleik, lit lífsins.

Þetta sést glöggast á því, að blaða í gegnum "Íslenzk ástaljóð", bók, sem Árni Pálsson bókavörður hefir safnað efni í. Hún ber vott um það, hve flestum íslenzku skáldunum hefir verið óeiginlegt að slá strengi sína til lofgerðar og lýsingar á þessari áhrifamiklu og ódauðlegu tilfinningu mannshjartans: ástinni. Og kemur þar að því, sem áður var sagt, að kendarljóðagerðin hefir aldrei átt djúp eða rík ítök í íslenzkum skáldum. Ólistrænni og hlutrænni efni hafa jafnan legið þeim nær. Þau hafa miklu fremur ort heila ljóðaflokka um hestinn sinn en ást sína. En ekkert efni er hreinni lyrik jafn tamt og skylt, samgróið og meðfætt, og samband karls og konu. Um þau efni hafa lyrísk skáld ljóðað sín guðdómlegustu og fegurstu kvæði.

## III.

Nokkurnveginn skýr takmörk má draga, þar sem fyrst tók að verða vart við verulega nýjan anda í ljóðagerð okkar á síðustu árum.

Það var, þegar Sigurður Sigurðsson gaf út ljóð sín 1912. Hann mun vera sá fyrsti, sem gengur öruggur og vitandi út af þjóðveginum. Hann brýtur fyrstur af sér hlekki þungra og ósöngvinna hátta og gefur vængjunum lausan tauminn. "Hrefna" var óvanalegt ástarkvæði á þeim árum:

Söngvar hljóma, göngin endur-óma—
allar róma tungur vorsins blóma,
loftið fyllist sólarsöng og ljóma.
Kæra, máttu
kenna sláttinn,

kraft og stríð í hjarta mínu?
Berast mér frá brjósti þínu
brimhljóð, gegnum andardráttinn.

Þarna er myndin orðin víðari, hærra undir loft í huga skáldsins, fagnaðartilfinningin fyllri en í kvæðum eldri skáldanna flestra.

Þó bólar fyr á bjarma hins nýja tíma. Í kvæðum Guðmundar Guðmundssonar glampaði á brot af því gulli, sem nú skín í allri vorri ljóðagerð, þeirri, sem nokkurs er um verð. "Strengleikar" hans (1903) voru frumlegir í háttavali. Formsnilli hans naut sín vel við það efni. En að öðru leyti stinga þau ástarkvæði ekki í stúf við önnur. Þau eru blóðlítil, fölleit og fáskrúðug að hugsunum og tilfinningum.

Guðmundur er hneptur í gömlu böndin. Hann lætur leiðast til þess að yrkja um svo fjarskylt efni ljóðagerðinni og stjórnmál. Hann misbýður hvað eftir annað hörpu sinni með því að berja úr strengjum hennar köld og lífvana ljóð um flokkadrætti, sjálfstæðisbaráttu landsins, ádeilur og eggjanir ("Glámsaugun", "Eldraun" "Milli vonar og ótta", "Framsýn"). Þó er ljóðagáfa hans að eðlisfari hávaðalaus, fíngerð og innileg, og nýtur sín bezt á listrænna sviði. En aldarfarið og áhugamál samtíðarinnar afvegaleiddu hann einatt. Persónuleiki skáldsins í honum var ekki nógu máttugur til þess að standa af sér þá strauma, sem voru ljóðagerð hans hættulegir.

En með Guðmundi og á eftir honum koma fleiri, og sá flokkur sýnir gleggri og auðsærri einkenni nýrra strauma. Hulda gefur út kvæði sín 1909. Hún slær á strengi þjóðkvæðanna. Kvæði Jóhanns Gunnars Sigurðssonar eru gefin út sama ár. Margt í þeim bendir á, að þar hafi verið efni í ósvikinn "lyriker". Og enn gefur Jónas Guðlaugsson út "Dagsbrún" þetta sama ár. Og hann er hold og blóð þessarar ungu kynslóðar.

Ekkert þessara skálda er þó svo umfangsmikið, að það leggi að fullu í rústir hið gamla og byggi upp nýtt. Þau gera lítið meira en boða hið nýja. Þau eru fyrirrennarar. Á Íslandi var ekki til nema **eitt skáld** um þessar mundir, skáld, sem bar höfuð og herðar yfir öll hin og safnaði um sig í svo ríkum mæli athygli manna, að hin hurfu og gleymdust — urðu að engu í samanburði við hann. Það var Einar Benediktsson.

En þó er hann enginn boðberi nýs fagnaðarerindis í ljóðagerðinni. Hann á ekkert skylt við hinn gróandi mátt hinna. Hann stendur einn sér, með sérstaka, óháða list. Straumar gamals og nýs tíma sameinast í ljóðaelfi hans. Og undir skáldmeiði hans standa jöfnum þáttum innlendar og erlendar rætur. Ljóð hans eru, mörg hver, alt í senn: máttug, fögur og viturleg, og orðsnild hans er óviðjafnanleg. Orðsins list er honum líka alt. Hann stendur því utan við allan samanburð, þegar um framþróun eða stefnubreytingar er að ræða í skáldskap vorum. Hann skipar sitt sérstaka rúm. Hann stendur eins og laufríkur, glæsilegur og gnæfandi meiður innan um smávaxið kjarr.

En þó þetta mesta skáld vort fylti ekki flokk ungu mannanna, þá sigruðu þeir engu að síður. Einar vann lotningu og aðdáun, en áhrif hans voru lítil

og fara stöðugt þverrandi. Nýgræðingurinn vakti litla aðdáun. En nú er hann orðinn að því gróðrarmagni í íslenzkri ljóðagerð, að enginn villist á lit þess og lífs-einkennum.

IV.

"Söngvar förumannsins", eftir Stefán frá Hvítadal og "Svartar fjaðrir" eftir Davíð Stefánsson, eru merkustu ljóðabækur síðustu ára. Þær sýna breytinguna, sem á er orðin síðan um aldamót. Höfundar þeirra eru á faldi þeirrar öldu, sem hófst með þeim, sem fyr eru nefndir, og enn á eftir að rísa hærra. Í ljóðum þeirra heyrast hjartaslög hreinna kendarljóða. Þeir eiga margt, sem boðar glæsilega framtíð í íslenzkri lyrik.

Það er fróðlegt að blaða í bókum þeirra og bera þær saman við eldri ljóðasöfn. Maður verður óðara var við blæbrigðin, litaskiftin og mismun yrkisefnanna.

Eitt af því, sem maður tekur eftir, er það, að **ættjarðarljóðin** eru horfin. Hvorugt þessara ungu skálda yrkir lofeða aðdáunarkvæði um ættjörðina. Fortíð hennar og framtíð er þeim — að því er virðist — óviðkomandi. Þeir eiga ekkert föðurland — í ljóðum sínum. Annar þeirra yrkir **eitt** kvæði til landsmanna, sem hann nefnir "Hvöt" (Davíð Stefánsson: Svartar fjaðrir). Hinn ekkert. Og þessi "hvöt" er ótvíræður vottur þess, að höfundinum láta önnur yrkisefni betur. Kvæðið er ort mörgum sinnum áður af íslenzkum skáldum.

En í sambandi við þetta vakna margar hugsanir.

Er þetta sprottið af því, að nú sé þörfin horfin að hylla föðurlandið? Er ættjarðarást Íslendinga að kólna? Eru þessi ungu skáld ekki jafn góðir synir "móður sinnar" og þeir, sem áður fögnuðu sigrum og grétu ósigra hennar? Eða stafar þetta eingöngu af því, að landinu er veitt sjálfsforræði, og því óþarfi að brýna ættjarðarást landsmanna?

Svörin verða ekki og geta ekki orðið nema á eina lund.

Skáldakynslóðina ungu skortir ekki ást til lands og þjóðar. Lesa má víða milli línanna í ljóðum yngstu höfundanna, að þeir bera í brjósti sér þræðina, sem tengja "son við móður" jafn "römmum taugum" og þá, sem heitust ættjarðarljóð hafa ort. En sú tilfinning er þeim ekki aðal-atriði. Nú eru ekki þeir tímar, sem hleypa föðurlandsást ungra Íslendinga í ljósan loga. En þó er hitt höfuð-atriðið, að ættjarðarkvæði eru ekki í samræmi við skáldeðli þeirra og einkenni. Lyrisk ljóðgáfa þeirra stendur köld og skilningslaus gagnvart þeim efnum. Þeir unna landinu. En þeir geta ekki ort um það. Strengirnir liggja innar og dýpra.

Enginn, sem ann aukinni fegurð og þroska íslenzkra ljóða, mun harma þetta. Skáld vor hafa syndgað nóg á því að berja saman þessi svokölluðu ættjarðarljóð, fátæk og jafnvel gersneitt að allri list og lifandi tilfinningu, mörg þeirra, þó innan um allan þann sæg glampi auðvitað á einstaka perlu.

En það er önnur ást, sem hin yngri skáld setja í hásæti listar sinnar. Það er ástin á **draumunum,** óbundnu flugi hins víðförla mannshuga út um allar veraldir himins og jarðar. Henni syngja þeir lof og hana tilbiðja þeir. Og það er þessi drauma-ást, sem sýnir,

ein með öðru, skyldleika þeirra við lyriska stefnu. Öll lyrik er full af draumum. Þeir eru ívaf hennar og uppistaða. Mikill "lyriker" er altaf mikill draumsjónamaður. Gustav Fröding, mesti "lyriker" Norðurlanda, var líka glæsilegasti og langsýnasti draumsjónamaður allra skálda á Norðurlöndum.

Í þessum draumum er mannshugurinn máttugur eins og Guð. Hann skapar nýja heima, reisir sér himnaríki, byggir, brúar og varðar. Í draumunum kemur sköpunarþrá mannsandans bezt í ljós. Þar er hún ótæmandi og þar er henni alt fært.

— Þá er og enn eitt einkenni við ljóð yngstu skáldanna, og það ekki hið þýðingarminsta. Það er, hvað þau falla mikið í farvegi **þjóðkvæðanna** gömlu. Bæði Stefán, Davíð og að nokkru leyti Sig. Nordal, hafa allir seilst til sömu strengjanna og þjóðkvæðin eru sungin á.

Og þeir hafa allir unnið við það, að slá tjöldum sínum á akri þjóðkveðskaparins, því mörg ágætustu og blæfegurstu einkenni þjóðkvæðanna eru einmitt í fullu samræmi við anda og form þeirra ljóða, sem nú eru efst á baugi. Tvennir tímar slá þar saman instu og dýpstu straumum sínum. "Stemnings"ljóðin, er nú eru tíðsungnust, eru náskyld þjóðkvæðunum. Þau voru líka logi tilfinninganna. Ást og draumþrá glampaði í hverju orði þessara fíngerðu ljóða. Sama rótin stendur því undir hvorumtveggju. Og engin íslenzk ljóðstefna hefði fram að þessum tíma getað sótt yrkisefni og mótað kvæði sín í formi þjóðkvæðanna, nema sú, sem nú er ríkjandi. Því aldrei hefir nein verið þjóðkveðskapnum samrunnari eða skyldari.

En þó verða ung og ómótuð skáld að gjalda varhuga við, að hverfa ekki um of inn á leiðir þjóðkvæðanna. Geri þau það, er hætt við að þau missi persónueinkenni sín. En án þeirra eru öll skáld dauðadæmd. Þjóðkvæðin eiga að vera þeim endurfæðingarlaug, eins og þau urðu Goethe og hafa verið öllum snillingum, sem kunna að stýra milli skers og báru.

## V.

Framsýnir menn og næmir á breytingar hins andlega loftslags, spá því, að skáldskapur Íslendinga, og þá einkum ljóðagerðin, sé að hverfa inn á þá braut, er hann muni ná miklum þroska á.

Og margt er það, sem bendir til þessa. Þjóðarandinn er að nema ný lönd. Því landnámi fylgir útrás og framrás andlegra krafta. En meðal þeirra er skáldskapurinn. Nær það ekki aðeins til ljóðanna, heldur og til skáldsagnagerðar og leikrita. Nægir í því efni að benda á Íslendinga þá, sem nú yrkja á dönsku, þó sá fremsti og frægasti sé nú liðinn.

En ljóðin eru augljósust. Breytingarnar eru þar skýrastar. Ljóðin hafa lengi skýrt margt í skapferli þjóðarinnar og verið hin greinilegasta skuggsjá þess, er lifað hefir og vaxið með henni. Og nú eru þau að leggja af sér þann ham, sem bannaði þeim alt lyriskt flug. Þeim eru að vaxa vængir. Þau hafa altaf liðið með jörðinni. Nú eru þau að lyftast upp í hvelin og leita sér bergmáls.

En þó eru auðséðar taugarnar, sem enn tengja við gamla tímann.

Eitt ungu skáldanna, Jakob Thorarensen, er grein á hinum gamla stofni. Hann á ekkert sameiginlegt með þeim, sem glöggast sýna einkenni nýrra strauma. Formið er enn þungt á kvæðum hans og efnið ekki lyriskt eða listrænt. Hann flýgur ekki. Hann ann jörðinni og talar til manns þaðan. Og þó J. Thorarensen sé áreiðanlega fæddur skáld, þá mun það hafa hamlað vexti og bundið ljóðgáfu hans, að hann mun hafa samið sig að siðum þeirra, er lítil afreksverk hafa unnið í ljóðagerð. En þó því hefði ekki verið til að dreifa, þá hefði hann samt heyrt hinum eldri tíma til. Kendarljóðagerðin er honum ekki eiginleg — fremur en eldri skáldunum. Honum láta bezt mannlýsingar. En þó skortir oft fegurstu drættina í persónur hans. Og hjartaslátt þeirra heyrir maður sjaldan.

VI.

Ef draga ætti saman í fá atriði mismun nútímaljóða íslenzkra og þeirra, sem ort eru fyrir tveim tugum ára, er munurinn þessi:

Nútímaljóðin eru **hugræn,** hin **hlutræn.** Þau yngri eru **tilfinningaljóð,** en hin **framkvæmda-** og **hvatningakvæði.** Hin nýrri beinast **inn að sálarlífinu,** hin að ytra lífi, **yfirborðinu.** Nútímaljóðin eru **hjartað,** hin **heilinn.**

Þetta skiftir litum á þeim og hinum eldri. Og þetta er framfara- og þroskamerkið. Lyrik verður aldrei lyrik, verður aldrei hold og blóð þjóðarinnar, ef hún er notuð í þjónustu stjórnmálabaráttu og til hvatninga og eggjana í opinberu lífi. Það sýnir allur sá aragrúi kvæða, sem við eigum um þessi efni, og fárra ára eru, **en þó dauð nú þegar.** Öll slík kvæði fæðast feig. Þau eru ekki helguð af innblæstri augnabliksins. En þau, sem streyma fram af fossaföllum hins innra tilfinningaróts, þau bera í sér neista af eilífu lífi. Þau skiljast altaf, því tilfinningar mannanna eru sínýjar, þó þær séu sí-endurteknar. Atburðirnir falla í fyrnsku og ljóðin með þeim, sem um þá eru ort. En tilfinningarnar eru eilífar.

---

## ATHS.

Hinum heiðraða höf. erum vér alls ekki samdóma um margt, sem hann segir í ritgerð þessari. En sökum þess að greinin er vel rituð, og einkum vegna þess að hún var send "Tímaritinu" af hr. Baldri Sveinssyni, ritara félagsins "Íslendingur" í Rvík, þótti sjálfsagt að veita henni upptöku. Alt of mikið virðist höf. gera úr hinni "Nýju stefnu", því enn sem komið er byggir hún aðeins á þrem smákverum, er út hafa komið nýlega, eftir því sem honum sjálfum segist frá, og því óvíst, hvort hér er um stefnu að ræða, hvað íslenzkar bókmentir snertir. Þessum þrem ungu skáldum er haldið svo gífurlega fram sem spámönnum, að allir hinna eldri eiga að hafa mælt marklaus orð í samanburði við þá. Eru þettar öfgar og eigi annað. Eftir þessari "nýju stefnu" að dæma, eins og hún kemur fram í þeim sýnishornum, sem höf. tilfærir, er það stórt álitamál, hvort ísl. bókmentir biðu eigi heldur hnekki en gróða við það, ef hún næði sér vel niðri. Það má vera að hún sé **"hugræn"**, en hún bregður sér niður til jarðarinnar með köflum, þó eigi sé til annars en að "verma sig", og erfitt er að skilja, að ástakvæði þeirra Stefáns frá Hvítadal og Davíðs, séu "andlegri" en sum fornu ástakvæðin, t. d. Stgr. Thorst., Jónasar Hallgrímssonar eða Þ. Erlingssonar. Annars er dómur sá, sem höf. lætur ganga yfir eldri skáldin sannnefndur sleggjudómur. Ef ástin "til ættjarðar og þjóðar" eru of **"hlutræn"** efni fyrir hina "nýju stefnu", ef öll viðfangsefni mannanna lífinu viðkomandi eru of gróf, ef alvara lífsins er henni óviðkomandi, þá er eiginlega ekki sýnilegt, hvar þessi "nýja stefna" kemur við á flugi sínu "um himininn". Að þessi yngri skáld "bæði hlægi og gráti í sömu andránni, þegar þau segja frá unaði þeim, er ástin veitir þeim", er, sannast að segja, fremur mynd veiklaðs sálarlífs, sem er orðið "ofurselt holdsfýsninni," — eins og þeir gömlu komust að orði, heldur en vottur andlegs heilbrigðis. — Þá getur höf. um hina þunglamalegu hætti, sem eldri skáldin hafi ort undir, en þessi "nýja stefna" hafi lagt niður. Eitt sýnishornið er þó kveðið undir afgömlum hætti og undir sama tón og "Drengur nokkur átta ára", eftir gamla Jón Þorláksson á Bægisá ("Saman okkar sálir runnu"). Þessi "nýja stefna" er þess utan alls ekki ný í bókmentunum, hún er jafngömul að minsta kosti 'realista"-skólanum gamla og honum náskyld, nú vakin — en eigi nema um stund, sem undanfari og eftirköst heimsumbrotanna miklu. (Útg.)

Séra Jón var einkennilegur maður, sagður fremur dulur í skapi. Eigi var hann fríður sýnum og enginn afburðamaður að líkams-orku sem séra Matthías. Svo veiklaður var hann á sjón, að naumast greindi hann neitt nema hann bæri það fast upp að augum. Myndi slíkur maður fá miklu afkastað um æfina, var eigi ólíklegt að sumir spyrðu. Um það bera nú verkin vott. Föðurland hans og feðratunga — þjóðarsagan — voru hans ununar- og umhugsunarefni til æfiloka. Við það verða þau merkilegu undur, að nærsýni fræðimaðurinn, er naumast sá á bók nema hann bæri hana upp að augunum, verður svo fjarsýnn að hann sér yfir allar aldirnar er að baki liggja, yfir alt sögusvið Norðurlanda, frá því að fyrstu hóparnir rísa þar upp við fyrsta morgunskin sögudagsins mikla, og fram á yfirstandandi tíma; "á hring fer hann með víkingum", einum hópnum eftir annan, er sækja suður og vestur um lönd — sjálfur landnámsmaður ágætur í heimi sannleikans.

Vel er íslenzku þjóðinni, er á þvílíka menn og nú eru taldir, til að taka erfðir eftir og umráð, þeirra fjársjóða, er þeir hafa aflað. "Erat hon alls vesæl, er svá er of sonum sæl."



# Fjögur æfintýri.

Eftir **Fedor Sologub.** **Einar P. Jónsson** þýddi.

---

## I.

### ÓHÁÐU LAUFIN.

Fáein lauf, er sátu á sterkum stönglum, slúttu fram af voldugri grein. Þeim fanst lífið frámunalega tilkomulítið. Það var annað en gaman að eiga að hýrast þarna um aldur og æfi. — Þau sáu daglega sviflétta söngfugla kljúfa loftið og ketlinga dansa um runnana, jafnvel skýin sýndust hafa vængi, — en þau, sjálf laufin, eins og dæmd til athafnaleysis á sömu greininni. Þau tóku á sig stóra sveiflu, í þeim tilgangi að brjóta stönglana og vinna þannig frelsi sitt.

Svo ráðfræðu þau sig hvert við annað og sögðu: "Því ættum vér ekki að geta spilað upp á eigin spítur? Vér erum þó sannarlega orðin fullþroska. Það er oss með öllu ósamboðið, að hýma hér stundinni lengur, undir verndarvæng þessarar flónsku, gömlu greinar."

Nú tóku þau á sig hverja sveifluna af annari, þar til þau losnuðu og urðu frjáls. Þau féllu til jarðar og skrælnuðu á sama augnablikinu. Svo kom garðyrkjumaðurinn og sópaði þeim burt með sorpinu.

II.

**LYKLARNIR.**

Þjófalykill sagði einhverju sinni við nágranna sinn: "Eg er altaf önnum kafinn, en þú liggur hér á sama stað og hefst ekki að. Eg er á þönum nótt og nýtan dag, en þú hýrist einatt heima."

Gamli lykillinn vildi helzt komast hjá að svara, en mælti þó eftir stundarþögn:

"Það eru til ramgjörvar eikardyr. Þeim loka eg einn og opna þær aftur á sínum tíma."

"Látum svo vera," svaraði þjófalykillinn, "eða veiztu kanske ekki að veröldin er krök af dyrum?"

"Allar aðrar dyr eru mér óviðkomandi," sagði gamli lykillinn. "Eg opna engar þeirra, hvað sem í boði er."

"Geturðu það ekki? Eg get opnað hvaða dyr, sem um er að ræða."

Og þjófalykillinn hugsaði með sjálfum sér að gamli lykillinn hlyti að vera fádæma flón, ef hann gæti ekki opnað nema einar dyr. Gamli lykillinn sagði:

"Þú ert alræmdur þjófalykill, en eg hefi alla mína æfi verið vandaður og heiðvirður dyralykill."

Þetta var algerlega ofvaxið skilningi þjófalykilsins. Hann hafði aldrei haft nokkra minstu hugmynd um ráðvendni eða heiðarlegt líferni, og hélt þess vegna blátt áfram að gamli lykillinn væri ekki lengur með öllum mjalla.

III.

**JAFNRÉTTI.**

Stórfiskur einn réðist á síli og ætlaði að gleypa það. Sílið skrækti ámátlega:

"Þetta er ranglátt. Mig langar einnig til að njóta lífsins. Allir fiskar eru jafnir fyrir lögunum."

Stórfiskurinn svaraði:

"Hvað gengur á? Eg ætla ekki að fara að deila við þig um það, hvort við séum jafnir fyrir lögunum eða ekki. Ef þú vilt komast hjá að eg eti þig, þá skaltu gleypa mig undireins ef þú getur. Þú þarft ekkert að óttast, eg skal ekki sýna nokkurn minsta mótþróa."

Sílið þandi ginið eins og frekast mátti verða og gerði hverja atrennuna annari meiri til þess að svelgja í sig stórfiskinn. Loks gafst það upp andvarpandi og sagði:

"Þú hefir borið hærra hlut. Komdu og gleyptu mig."

IV.

**KERTIN.**

Það logaði á tveimur kertum og mörgum veggjalömpum. Maður las upphátt í æfingabók, en nokkrir hlustuðu á steinþegjandi.

Logarnir titruðu. Kertin hlustuðu líka — þeim þótti gaman að hlusta; en einhversstaðar smaug dragsúgur inn í herbergið, — þess vegna titruðu logarnir.

Maðurinn lauk lestrinum. Það var slökt á kertunum og fólkið tíndist burtu.

Og alt var við það sama og áður.

Það logaði á grá kerti. Kona sat við sauma. Barn svaf í vöggu og hóstaði up púr svefninum. Einhversstaðar kom dragsúgur frá veggjunum. Kertið grét þungum, hvítum tárum. Tárin breyttust í frostperlur. Nú var komin afturelding. Konan, rauðeygð af vökulaginu, sat enn við sauma. Hún slökti á kertinu en hélt samt áfram að sauma.

Og alt var við það sama og áður.

Það logaði á þrem gulum kertum. Í líkkistu lá maður — gulur og kaldur. Einhver las upp úr bók. — Kona grét. Kertaljósin voru komin að dauða af sorg og ótta. Svo komu margir menn. Þeir sungu — og mistu taumhald á tilfinningum sínum. Kistunni var lyft upp. Næst var slökt á kertunum. Fólkið smátíndist í burtu.

Og alt var við það sama og áður.



# Fulltrúi Fjallkonunnar.

Eftir **Rögnv. Pétursson.**

---

Árið 1920 er merkis-ár í sögu íslenzku þjóðarinnar, svo austan hafsins sem vestan. Á því ári eru liðin rétt 75 ár frá endurreisn Alþingis, en þann atburð má telja fyrsta sporið á hinni erfiðu braut til hins langþráða áfangastaðar, sjálfsforræðisins. Þá voru og



**Kjartan Helgason.**

liðin 50 ár frá því að vesturflutningar byrjuðu fyrst til Norðurríkja Bandaríkjanna og Canada. Fyrirsögn hefði það þótt fyrir 30 árum síðan, ef því hefði verið spáð, að þjóðin íslenzka myndi hingað senda fulltrúa sinn á þessu ári, til þess að draga saman hugi manna í hinum víðáttumiklu og dreifðu bygðarlögum vorum og beina athygli þeirra að hinu mesta og stærsta velferðarmáli al-þjóðarinnar, sem er verndun og viðhald íslenzkrar tungu og þjóðernis meðal þess hlutans og afkomenda hans, er býr utan Íslands. Má með sanni segja að ekkert sé þó íslenzku þjóðinni þýðingarmeira mál en einmitt það, og að á því hvíli að miklu leyti framtíð hennar, eigi áhrifa hennar að gæta að mun, utan heimalandsins, og hún að vaxa sem aðrar menningarþjóðir Norðurálfunnar. Nýlendur fá Íslendingar ekki stofnsett á annan hátt en þeir hafa þegar gert í liðinni tíð, til þess eru þeir eigi nógu fjölmennir, en til þessara bygðarlaga mun nú helzt vera þeirra von, er leita af landi burt í framtíðinni. Það er því ljóst að eigi getur á sama staðið, hvort samband fái haldist, milli þessara bygðarlaga innbyrðis fyrst og fremst, og því næst milli þeirra og heimaþjóðarinnar, eða að fólk þetta týni tungu sinni og ætterni og hverfi "eins og dropi í sjóinn".

Á þessu síðastliðna ári vill nú svo til, að maður er sendur einmitt þessara erinda — maður, er allir munu kannast við hér eftir og vér munum lengi minnast með hlýjum huga, — kostaður vestur hingað til vor af Alþingi og sjálfri íslenzku þjóðinni, séra Kjartan Helgason frá Hruna, prófastur í Árnessýslu. Komu hans eigum vér þó sérstaklega að þakka félaginu "Íslendingi" í Rvík, er stofnað var um líkt leyti og Þjóðræknisfélag vort og í sama tilgangi: að efla samúð og sam-

vinnu milli Íslendinga austan hafsins og vestan, leggja oss lið og veita oss bróðurlega hvatningu í baráttu vorri fyrir viðhaldi tungu vorrar og þjóðernis í álfu þessari. Félagi þessu veita forstöðu tveir Íslendingar, er áður hafa dvalið vestra og öllum eru að góðu kunnir, blaðamaðurinn og rithöfundurinn þjóðfrægi hr. Einar Hjörleifsson Kvaran, sem er forseti félagsins, og hr. Baldur Sveinsson, sem er skrifarinn. Auk þess standa að félaginu aðrir eins menn og Dr. Guðm. Finnbogason, Dr. Ágúst H. Bjarnason, biskup Íslands, yfirráðherra Íslands, Þorsteinn Gíslason ritstjóri, cand. S. Ástvaldur Gíslason og fleiri.

Séra Kjartan lagði af stað frá Rvík hinn 9. okt. í fyrra (1919), og kom hingað til bæjar hinn 26. s. m.; dvaldi hann svo hér til sumarmála. Á þessu tímabili heimsótti hann flestöll bygðarlög vor, og ávann sér fjölda vina yngri sem eldri, — hefði ferðast um allar bygðirnar, ef veður hefði eigi bannað — var síðastliðinn vetur með þeim allra hörðustu er hér hafa komið, — því engar vildi hann eftir skilja. Áhugi hans og alúð við þetta starf sitt sýndi sig bezt í því, hve víða hann fór þrátt fyrir hina afar óhagstæðu og köldu veðráttu. Í bréfi, sem Einar H. Kvaran skrifaði til Þjóðræknisfélagsins, segir hann að séra Kjartan fari sem "sendimaður félagsins Íslendings". "Honum veitti örðugt að ráða ferðina við sig, sem eðlilegt var, þar sem hann er farinn að reskjast, hefir ekki verið í utanlandsferðum áður, og er maður mjög hlaðinn störfum, en að lokum lét hann tilleiðast. Eg hygg að ekki geti hjá því farið að þið komist að raun um, að valið hefir tekist okkur vel". Um það munu honum allir vera samdóma, er nokkur kynni höfðu af sr. Kjartani meðan hann dvaldi hér. Fyrsta fyrirlesturinn flutti hann í Winnipeg laugardagskvöldið 8. nóv., og svo hvern af öðrum út um bygðirnar. Auk þess mun hann hafa prédikað í flestum íslenzku kirkjunum. Frá Winnipeg lagði hann af stað heimleiðis 6. apríl, átti þá eftir að koma við í tveimur bygðarlögum í Bandaríkjunum. Kvöldið áður en hann fór var honum haldið fjölment kveðjusamsæti í Winnipeg, er Þjóðræknisfélagið stóð fyrir. Var samsæti þetta haldið fyrir hönd allra Íslendinga, eins þeirra er þar gátu eigi verið, og honum afhent að skilnaði sem vinargjöf frá þeim, er bjuggu innan Canada, kr. 5000 ásamt skrautrituðu ávarpi frá félagsstjórninni. Var honum þökkuð koman, orðin sem hann hafði flutt, viðkynningin — og beðinn að skila kveðju heim.

Séra Kjartan er fæddur 21. okóber 1865, er því á svipuðum aldri og séra Matthías var þegar hann heimsótti oss fyrir 27 árum síðan. Árið 1886 útskrifaðist hann úr Lærðaskólanum með fyrstu einkunn og frá prestaskólanum 1889 sömuleiðis með fyrstu einkunn. Til prests er hann vígður 1890 að Hvammi í Hvammssveit í Dölum. Til Hruna fer hann 1905.

Hinar lipru og næmu gáfur hans, samhygðin og skilningurinn á mannlífinu, öfluðu honum vinsælda og málefni hans og vor. — Vér þökkum þeim sem hann sendu — félaginu Íslendingi —, þeim sem hann kostuðu — Alþingi Íslands — og honum sjálfum eigi sízt — komuna, veruna og vinnuna.

# Fyrsta ársþing Þjóðræknisfélagsins.

Ársþing Þjóðræknisfélagsins var haldið hér í bæ dagana 25.—27. febrúar, eins og auglýst hafði verið. Utan af landsbygðinni komu færri en í fyrra og stafaði það af veikindum, sem víða voru allmikil úti í bygðunum. Þingið var sett eftir hádegi miðvikudagsins þess 25. febr. Var fyrst sunginn sálmurinn nr. 619, og því næst flutti séra Kjartan Helgason prófastur í Árnessýslu, fulltrúi félagsins "Íslendings" í Reykjavík, bæn.

Var þá lesið þingboðið af ritara, Dr. Sig. Júl. Jóhannessyni. Sagði forseti því næst fund settan. Voru þá lesnar skýrslur embættismanna. Lagði forseti fram langt skrifað ávarp, en féhirðir prentaða skýrslu yfir efnahag félagsins. Hinar skýrslurnar voru gefnar munnlega. Ánægju sinni lýsti fundurinn yfir starfi stjórnarnefndarinnar og tjáði henni þakklæti sitt með atkvæðagreiðslu. Því næst skrásettu allir fundarmenn sig, með því að rita nöfn sín í nafnabók þingsins, og var þeirri reglu fylgt það sem eftir var fundanna, að allir, sem við bættust, rituðu nöfn sín í nafnabókina.

Valdi fundurinn þá dagskrárnefnd og voru kosnir: Finnur Johnson, O. S. Thorgeirsson, Stefán Einarsson, Ásgeir I. Blöndahl og Guðmundur Sigurjónsson. Lagði nefndin til að þessi mál yrðu tekin á dagskrá í eftirfylgjandi röð:

1. Endurskoðun grundvallarlaganna.
2. Íslenzkukensla og útgáfa hentugra skólabóka er nota skyldi við kensluna.
3. Félagsskírteini.
4. Sameiginleg deildalög.
5. Íslenzkt listamót í sambandi við ársþingið.
6. "Tímaritið".
7. Minnisvarði Jóns Sigurðssonar.
8. Útbreiðsla félagsins.
9. Samvinna við félagið "Íslendingur" í Reykjavík.
10. Ný mál, ef einhver kynni að vera.

Öllum þessum málum var vísað til nefnda. Í kenslumálanefnd voru skipaðir: Séra Jónas A. Sigurðson, séra Kjartan Helgason, J. J. Bíldfell, Gísli Jónsson og Hjálmar Gíslason. En sökum þess að séra Jónas A. Sigurðsson varð að fara af þinginu þá strax um kvöldið, var séra Albert E. Kristjánsson skipaður í hans stað daginn eftir, strax og hann kom til þings. Í listamótsnefndina voru skipaðir: Guðmundur Sigurjónsson, Einar P. Jónsson og Ó. S. Thorgeirsson. Til að endurskoða grundvallarlögin : Arngrímur Johnson, Stefán Einarsson og Ásgeir I. Blöndahl. Er þessu var lokið var dagur að kvöldi kominn og fundi frestað til næsta dags, kl. síðd.

Um kvöldið var erindi flutt, langt ítarlegt og ágætlega skemtilegt, af séra Jónasi A. Sigurðssyni. Tók hann sér að umtalsefni þessi orð úr þjóðsögunni: "Kjóstu mig, kóngsson." Var hlýtt á það með miklu athygli og

að því loknu fyrirlesara greitt þakklætisatkvæði. Erindi þetta var alvarleg og sterk hvöt til Íslendinga að vernda tungu sína hér í álfu á hverju sem gengi.

Annar fundur var settur kl. hálfþrjú eftir hádegi þ. 26. Aðal málið til umræðu fyrir fundinum var Jóns Sigurðssonar minnisvarðinn. Urðu um það mál allmiklar umræður, og var það einróma skoðun fundarins, að það mál ætti að vera afhent Þjóðræknisfélaginu, er svo gengist fyrir að koma myndinni upp.

Að lokum var borin fram tillaga af hr. Árna Eggertssyni, "að fundurinn heimili hinni væntanlegu stjórnarnefnd að gera Jóns Sigurðssonar minnisvarðanefndinni tilboð um að taka við minnisvarðanum og koma honum í geymslu þar sem almenningur hafi frjálsan aðgang að sjá hann unz honum verði komið upp á hinum fyrirhugaða stað, þar sem hann verður látinn standa í framtíðinni, að fengnu samþykki almennings hér í bæ.

Uppástungan var samþykt.

Var þá gengið til embættismannakosningar samkvæmt tillögum fyrri fundar. Þessir hlutu kosningu: Rögnv. Pétursson forseti (endurk.), Jón J. Bíldfell varaforseti (endurk.), Sig. Júl. Jóhannesson ritari (endurk.), Ásgeir Í. Blöndahl vararitari (endurk.), Gísli Jónsson fjármálaritari, Stefán Einarsson varfjármálaritari (endurk.) Ásm. P. Jóhannsson féhirðir (endurkosinn), Albert E. Kristjánsson varaféhirðir (endurk.), Finnur Johnson skjalavörður. Yfirskoðunarmenn reikninga félagsins: Einar P. Jónsson (endurk.) og Sveinbjörn Árnason. Nefndarálitin voru nú lögð fram, en eigi var frá þeim gengið áður en fundi var slitið.

Kl. 8 um kvöldið var haldin stórkostleg skemtisamkoma undir umsjón félagsdeildarinnar "Frón" í Winnipeg. Árni Eggertsson forseti deildarinnar stýrði samkomunni. Er það að líkindum einhver fjölmennasta samkoma íslenzk, sem haldin hefir verið hér í bæ. Þar flutti séra Kjartan Helgason fyrirlestur um "Verðhækkun", og var gerður að honum hinn bezti rómur. Á samkomunni fóru og fram ýmsar skemtanir.

Um kl. 3 eftir hádegi föstudagsins þess 27. var þriðji fundur félagsins settur. Voru þá afgreidd nefndafrumvörp. Í kenslumálinu var lagt til af nefndinni: "1. að Þjóðræknisfélagið gangist fyrir að kennaraembætti í íslenzku og norrænum fræðum sé sett á stofn við háskóla Manitobafylkis, á þann hátt að bænaskrár séu samdar og sendar til undirskrifta um allar bygðir Íslendinga vestan hafs, og síðan lagðar fyrir háskólaráðið.

2. Að félagið skori á aukadeildir, þar sem þær eru, eða verða stofnaðar á árinu, að gangast fyrir barnakenslu í íslenzku og taki þátt í að koma því í framkvæmd og styrki það eftir megni. Í Winnipeg séu á næsta vetri kostaðir tveir umferðakennarar í samráði við heimadeildina Frón.

3. Að félagið styðji að því, að hér séu hafðar til sölu hentugar kenslubækur við íslenzkukenslu, og vill í því sambandi benda á stafrofskver Eiríks Briems og Laufeyjar Vilhjálmsdóttur, og til lesturs, Bernskuna I—II og Lesbókina í 3 bindum.

4. Að nefndin finnur til þess að þörf sé á nýrri lesbók er taki við af staf-

rofskverinu og sérstaklega sé sniðin eftir þörfum vestur-íslenzkra unglinga. Ræður hún félaginu til að gangast fyrir útgáfu slíkrar bókar, og að stjórn félagsins sé falið að hrinda því í framkvæmd.

b) Að "Tímarit" félagsins sé gefið út einu sinni á yfirstandandi ári og helzt ekki síðar en í nóvember. Félagsstjórninni sé falið að annast um útgáfuna.

c) Til frekari bókaútgáfu á árinu sér nefndin sér ekki fært að ráða.

J. J. Bíldfell, Gísli Jónsson, Albert E. Kristjánsson, Hjálmar Gíslason, Kjartan Helgason."

Álit þetta var viðtekið af fundinum og því vísað til stjórnarnefndarinnar.

Nefndin er skipuð var til að koma með álit um, hvort efna skyldi til íslenzks listamóts í sambandi við ársþing félagsins, lagði fram eftirfarandi álit:

"Nefndin hefir orðið sammála um eftirfylgjandi atriði:

1. Að það sé í verkahring Þjóðræknnisfélagsins að styðla að íslenzkum listum og almennri þekking í þeim efnum.

2. Að æskilegt væri að t.d. íslenzkir söngvar, kappglíma, íslenzkir leikir yrði eitt af aðalskemtiatriðum væntanlegs miðsvetrarmóts, er haldið yrði árlega í sambandi við aðalfund félagsins.

3. Að á sama tíma væri haft til sýnis og sölu sem fjölbreyttast safn íslenzkra listaverka.

4. Að framkvæmdum þessa máls myndi bezt borgið í höndum þriggja manna nefndar, sem í samráði við stjórnarnefndina ynni að þessu.

Guðm. Sigurjónsson, E. P. Jónsson Ó. S. Thorgeirsson.

Nefndarálitið var samþykt og hin sama nefnd endurkosin til að hafa mál þetta með höndum.

Málinu um sameiginleg deildalög og félagsskírteini, var vísað til stjórnarnefndar.

Kl. 8 flutti séra Rögnv. Pétursson fyrirlestur um "Þjóðrækni", og íhugaði aðallega þær ástæður, er helzt hafa verið færðar á móti viðhaldi íslenzkrar tungu hér í landi.

Varaforseti stýrði fundi. Að loknum fyrirlestrinum voru afgreidd þau fundarmál, sem eftir voru. Meðal yfirlýsinga, er gerðar voru, voru tvenn þakklætisatkvæði greidd: Til félagsins Íslendings, fyrir samvinnu þá, er það hafði þegar hafið við oss Íslendinga vestra, með komu séra Kjartans Helgasonar, er hingað er kostaður til þess að flytja fyrirlestra um Ísland og íslenzkar bókmentir. Og þakklætisatkvæði til prófessors Skúla Johnson við Manitobaháskólann, fyrir verk hans í þarfir íslenzkra mála, í því að fá háskólaráðið til að lofa því að taka íslenzka tungu og bókmentir upp á kensluskrá skólans, að fenginni yfirlýsingu frá Íslendingum hér í landi, að þeir einhuga óski þess. Því næst var með uppástungu séra Kjartann Helgason kjörinn fyrsti heiðursfélagi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Um útbreiðslu félagsins urðu allmiklar umræður. Loks var samþykt að veita úr félagssjóði um $200 til útbreiðslumála á næstkomandi ári.

Þinginu var slitið undir miðnætti.

# Fjárhagsskýrsla

**gjaldkera Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, yfir árið 1919.**

I. INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| 27. jan.—Gjöf frá stúkunni Ísafold I.O.F. | | $ 5.00 |
| 5. febr.—Gjöf frá Stúkunni Skuld I.O.G.T. | | 10.00 |
| 1. marz.—Gjöf frá stúkunni Heklu I.O.G.T. | | 10.00 |
| 1. marz.—Gjöf frá meðlimum Fyrsta lút. safn. | | 20.00 |
| Tekið við frá fjármálaritara, S. D. B. Stephanson | | 367.14 |
| | Samtals: | $412.14 |

II. ÚTBORGANIR:

| | | |
|---|---|---|
| Viking Press Ltd., fyrir ýmsa prentun | $ 58.70 | |
| Icel. Good Templars of Winnipeg, húsaleiga | 35.00 | |
| Fjórði partur af ársgj. meðl. í Wpg., afhent "Fróni | 32.35 | |
| Pósthólf | 4.65 | |
| Ó. S. Thorgeirsson | 1.85 | |
| Símskeyti til Wynyard | .36 | |
| The T. Eaton Co. | 3.25 | |
| Burðargjald | 4.75 | |
| 31. desember 1919 — **Til jafnaðar** | **271,23** | |
| | $412.14 | $412.14 |

III. KOSTNAÐUR VIÐ TIMARIT:

| | | |
|---|---|---|
| Fluttur afgangur frá reikn. að ofan | | $271.23 |
| 22. júní—Símskeyti til Íslands | $ 17.87 | |
| 13. nóv.—Brit. Colonial Press, Ltd., myndamót | 27.00 | |
| Þ. Þ. Þorsteinsson, fyrir uppdrátt | 35.00 | |
| Burðargjald á 180 bréf | 1.80 | |
| The Columbia Press, 200 prentuð bréf | 6.00 | |
| — 500 samnings-eyðublöð á ísl. | 4.00 | |
| — 1000 samnings-eyðublöð á ensku | 8.00 | |
| 31. desember 1910—**Í sjóði** | **171.56** | |
| Samtals: | $271.23 | $271.23 |

**Ásmundur P. Jóhannsson,** féhirðir.

**Skýrsla yfirskoðunarmanna:**

Winnipeg, 23. febr. 1920.

Hér með vottast að við undirritaðir höfum nákvæmlega yfirskoðað ársreikning Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, ásamt skjölum öllum og skilríkjum þar að lútandi, og segjum hann réttan vera.

**Einar P. Jónsson.**
**B. L. Baldwinson**
(í fjarveru H. Péturssonar.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins.

**Árborg, Man.**
Sæunn Anderson.
Kristján Bjarnason.
Jóhannes K. Benson.
Magnús Borgfjörð.
Séra Jóhann Bjarnason.
Dr. S. E. Björnsson.
Arnrún Einarsson.
Mrs. S. Einarsson.
Stefán Einarsson.
Hörður Einarsson.
Sigursteinn Einarsson.
Mrs. G. Elíasson.
Marelius Erlendsson.
Halldór S. Erlendsson.
Högni Einarsson.
Jóhanna Friðgeirsson.
Davíð Guðmundsson.
Þórarinn Gíslason.
P. S. Guðmundsson.
Björn J. Hansen.
Sigrún Hansson.
Sig. J. Hlíðdal.
Ingimar Ingjaldsson.
Njáll S. Johnson.
Jón J. Jónsson.
John A. Jónasson.
Karl Jónasson.
Percy C. Jónasson.
Valdimar Jóhannesson.
Guðm. Jóhannesson.
Ólína Johnston.
Böðvar H. Jakobsson.
Edward L. Johnson.
Snæbjörn S. Jónsson.
J. A. Jónasson.
Baldvin Jónsson.
Grímur Laxdal.
Bjarnþór J. Lífman.
Gestur S. Oddleifsson.
Gestur Oddleifsson.
Jón Pálsson.
A. F. Reykdal.
Sigurjón Sigurðsson.
Björgvin Vopni.
Gunnar Þórðarson.

**Bifröst, Man.**
Jóhannes Bergmann.
Eiríkur Bárðarson.
Guðm. Ó. Einarsson.
Hjálmar Jóhannesson.
Eiríkur Jóhannsson.
Guðm. Sigvaldason.

**Brown, Man.**
Sigurjón Bergvinsson.
Thorkell Bergvinsson.
J. S. Gillis.
Lovísa Gíslason.
T. J. Gíslason.
Helgi Kristjánsson.
Árni Ólafsson.
Gísli Ólafsson.
Halldór Ólafsson.
T. O. Sigurðsson..
Árni Thomson.

**Churchbridge, Sask.**
Séra Jónas A. Sigurðsson.

**Dafoe, Sask.**
Jón Jónsson (frá Mýri).
Thorlakur Jónasson.
Petrea Th. Jónasson.
Björn Jónsson.
Kristján Johnson.
Jón Jónsson.
Bjarni J. Ólafsson.
G. J. Ólafsson.

**Framnes, Man.**
Bergur J. Hornfjörð.
Tryggvi Ingjaldsson.
Daníel Pétursson.
Mrs. D. Pétursson.
Sigurf. Sigurðsson.
Páll Th. Stefánsson.
Thorgrímur Sigurðsson.
Guðm. Vigfússon.

**Foam Lake, Sask.**
Jón Einarsson.

**Geysir, Man.**
Thomas Björnsson.
F. V. Friðgeirsson.
Jón S. Nordal.
Valdimar Sigvaldason.
Jón Skúlason.
Friðf. Sigurðsson.
Svanberg Sigfússon.

**Gimli, Man.**
C. O. L. Chiswell.
Einar Gíslason.
Mrs. Kr. Stefánsson.
Gísli Sveinsson.
Bergþór Thordarson.
Guðni Thorsteinsson.
Hjálmur Thorsteinsson.

**Grand Forks, N. D.**
Dr. G. J. Gíslason.

**Hayland, Man.**
Davíð Gíslason.
J. B. Helgason.
Sigurður B. Helgason.
Björn B. Helgason.
Pétur Jónsson.
Ólafur Magnússon.
Kristján Pétursson.
Jón Pétursson.
Séra Adam Þorgrímsson

**Hove, Man.**
Guðmundur Arason.
S. Eyjólfsson.
K. L. Gíslason.
Sveinn Jónsson.
Andrés J. Skagfeld.
Steini S. Skagfeld.
B. Stanley Skagfeld.
Jóhannes Sigurðsson.
Björn Sigurðsson.
Jóhanna Sigurðsson.
Anton Sigurðsson.
J. K. Vigfússon.

**Hólar, Sask.**
Halldór J. Stefánsson.

**Hnausa, Man.**
Kristbjörg Johnson.

**Hensel, N. D.**
Magnús Ásgrímsson.
Fred. Bjarnason.
Fred. J. Erlendsson.

**Ísland.**
Séra Kjartan Helgason.

**Kandahar, Sask.**
Th. A. Björnsson.
Kristín Eyjólfsson.
S. B. Guðnason.
Andrés Helgason.
J. B. Josephson.
Guðjón J. Sveinbjörnson.
Svbj. J. Sveinbjörnson.

**Leslie, Sask.**
Björgvin Guðmundsson.
Joe Johnson.
M. Magnússon.
**Lundar, Man.**
Brynj. Thorlaksson.
Séra A. E. Kristjánsson.
**Bygðirnar kringum Markerville, Alta.**
John Björnsson.
Sigurást Björnsson.
Sigurlaug Bardal.
Júlíus Bardal
Sigurður Benediktsson.
Helga Benediktsson.
Mrs. Jón Benediktsson.
Jón Benediktsson.
Fjóla Benediktsson.
Josey Benediktsson.
Christinn Christinnson.
Hóseas Eiríksson.
A. S. Einarsson.
E. Th. Einarsson.
Helga Einarsson.
H. Einarsson.
F. H. Einarsson.
Albína Einarsson.
Jónas J. Húnfjörð.
Ben. Húnfjörð, Evarts.
Bjarni Húnfjörð.
Jónas Þ. Húnfjörð.
Hannes H. Húnfjörð.
Séra Pétur Hjálmsson.
Hermann B. Hillman.
J. S. Johnson.
Mrs. J. S. Johnson.
Thory Johnson.
J. A. S. Johnson.
Nichulás S. Johnson.
Mrs. S. Johnson
Sigurður Johnson.
St. K. O. Johnson.
Adaline Johnson.
May Johnson.
Eleanora Johnson.
Hróm. K. Jóhannsson
Halldór J. Jóhannsson.
Sigtr. Jóhannsson.
Christján Jóhannesson.
Miss M. K. Jóhannsson
Christján Jóhannsson.
Siggeir Jóhannsson.
Guðrún Maxson.
Peter Maxson.
Stephan Maxson.
Tómas Rafnsson.
Jarðþrúður G. Rafnsson.
Guðbjörn Sveinbjörnsson
Jóhann Sveinsson.
Mrs. Steinunn Sveinsson.
Stephan G. Stephanson.
Mrs. G. Stephansson.
Guðrún Stephanson.
Mrs. Bald. Stephansson.
Jakob K. Stephansson.
Baldur Stephansson.
Rósa Stephansson.
Miss Jóný Stephansson.
Mrs Helga Stephansson.
Edwin Stephansson.
Ethel Stephansson.
Florence Stephansson.
Lillie Stephansson.
Jakobína Stephansson.
Benedikt Stephansson.
Jón Stephansson.
Helga Stephansson.
Hrefna Stephansson.
Ófeigur Sigurðsson.
Stephan Stephansson.
**Mountain, N. D.**
Þorleifur Ásgrímsson.
Joseph Myres.
Arnlj. Ólafsson.
Þorl. Thorfinnsson.
**Cornell University, N. Y.**
Halldór Hermannsson.
**North Star, Man.**
Árni H. Helgason.
**Oak View, Man.**
S. Ó. Eiríksson.
S. Sigfússon.
**Otto, Man.**
J. Magnús Bjarnason.
**Pembina, N. D.**
Guðm. B. Árnason.
Thor. Bjarnason.
Jóhann Burns.
Júlíus W. Burns.
Concordia Eymundsson.
Fríða Eggertsdóttir.
Eggert B. Eyford.
H. Halldórsdóttir.
Rannveig Johnson.
Guðmundur Johnson.
Björg Johnson.
Ingibjörg Leifur.
G. V. Leifur.
Guðm. G. Olson.
Sigurjón Paulson.
Óli Paulson.
Sigríður Pálsdóttir.
Geo. Peterson.
Mrs. Geo. Peterson.
John W. Peterson.
Karl Stefánsson.
Ingibjörg Thorgrímsson.
G. Thorgrímsson.
Erlín D. Thorgrímsson.
Þorbjörg D. Thorgrímson
Vilmar T. Thorgrímsson.
**Riverton, Man.**
Fred. Axford.
Sigtr. Briem.
Jóhann Briem.
Marino Briem.
S. Coghill.
Gutt. J. Guttormsson.
Skúli Hjörleifsson.
Guðjón E. Johnson.
Þorgrímur Jónsson.
Sigurbjörn Sigurðsson.
S. Thorvaldson.
Th. Thorarinsson.
Th. Thorvaldson.
**Silver Bay, Man.**
E. Árnason.
S. Árnason.
Hildur Árnason.
Guðný Árnason.
Árni Árnason.
Jón Björnsson.
Mrs. Sigríður Björnsson.
Hallur Hallsson.
Björn Th. Jónasson.
Ólafur Magnússon.
Sigurg. Pétursson.
Mrs. María Pétursson.
Ólafur Thorlacius.
**Siglunes, Man.**
B. J. Arnfinnsson.
John Hávarðsson.
Jón Jónsson frá Sleðbrj.

Mrs. H. G. Runólfsson.

**Stony Hill, Man.**

Guðbr. Jörundsson.

**Springwater, Sask.**

Árni Sigurðsson.

**Tantallon, Sask.**

J. G. Eiríksson.
Einar H. Eiríksson.
Erl. G. Ingjaldsson.
E. S. Ingjaldsson.
John Júlíus Johnson.
Snorri Jónsson.
Júlíus Johnson.
S. S. Johnson.
Ragnheiður Johnson.
H. J. Magnússon.
S. Magnússon.
Guðm. Ólafsson.
Sigurður D. Ray.
Helgi Thorsteinsson.
Jón T. Thorsteinsson.
Tryggvi Thorsteinsson.
N. Vigfússon.

**Tacoma, Wash.**

E. S. Guðmundsson.

**Thornhill, Man.**

G. Th. Oddsson.

**Vogar, Man.**

A. J. Arnfinnsson.
Guðm. Jónsson.
Jóhannes Jónsson.
John H. Johnson.
E. G. Johnson.
J. S. G. Johnson.
Oscar Johnson.
A. Sveistrup.
Mrs. S. Stephanson.

**Víðir, Man.**

Steindór Árnason.
Marteinn M. Jónasson.
Hjörtur J. Jónasson.
Magnús Jónasson.
Einar Jónasson.
Björn I. Sigvaldason..
Miss Anna Sigvaldason.

**Winnipeg, Man.**

Victor B. Anderson.
Sigtr. Arason.
Sigtr. Ágústsson.
Hjálmur Árnason.
Sveinbjörn Árnason.
J. S. Árnason.
Kr. J. Austmann.
Ólöf G. Austmann.
Ólafur Arnljótsson.
Snæbjörn Arnljótsson.
Thorsteinn Ásgeirsson.
Sigurður Anderson.
Halldóra Anderson.
Árni Anderson.
Ásta Austmann.
Þóra Austmann.
Dr. B. J. Brandson.
Mrs. B. J. Brandson.
H. A. Bergmann.
Arinb. S. Bardal.
P. S. Bardal.
Lára M. Bjarnason.
Jón J. Bíldfell.
Halldór S. Bardal.
Oddrún Bjarnason.
Kjartan Bjarnason.
Ingibjörg Björnsson.
Ólafur Bjarnason.
Bjarni Björnsson.
S. B. Benedictson.
Mrs. Guðrún Borgfjörð.
Ragnh. Davíðsson.
Jónas J. Daníelsson.
W. A. Davíðsson.
Guðv. Eggertsson.
Ólafur Eggertsson.
Árni Eggertsson.
Bjarni Finnsson.
Mrs.Ingib. Goodmundson
Hjálmar Gíslason.
G. R. Guðmundsson.
G. J. Goodmundson.
Gunnar Guðmundsson.
Guðm. Th. Gíslason.
Hallbera Gíslason.
Sigurgrímur Gíslason.
Össurlína Guðbjartsson.
Jóh. Gottskálksson.
Miss Elín Hall.
Miss Theodora Herman.
Páll Hallsson.
J. G. Hjaltalín.
L. J. Hallgrímsson.
Guðj. H. Hjaltalín.
Jónas Hinriksson.
A. P. Jóhannsson.
Mrs. Sigr. Jóhannsson.
Jónas W. Jóhannsson.
Kári W. Jóhannsson.
Grettir L. Jóhannsson.
Sigfús Jóelsson.
Mrs. A. W. Jóelsson.
Eiríkur Jóelsson.
Oddný Jóelsson.
D. F. Jóelsson.
Thorarinn Johnson.
Finnur Johnson.
Finnur Johnson.
Mrs. Guðr. Johnson.
Jóhannes Johnson.
Gísli Jónsson.
Mrs. Guðr. Jónsson.
Helgi Jónsson.
Bergþóra Jónsson.
Gyða Jónsson.
Ragna Jónsson.
Gunnl. Jóhannsson.
Mrs. Guðr. Jóhannsson.
Guðr. A. Jóhannsson.
Haraldur Jóhannsson.
G. K. Jónatansson.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson
Mrs. Sig. J. Jóhannesson.
Málmfríður Jóhannesson
Svanhvít Jóhannesson.
Séra Björn B. Jónsson.
O. T. Johnson.
Elín Johnson.
Stefanía Johnson.
B. K. Johnson.
Thordur Johnson.
Anna Johnson.
Einar P. Jónsson.
Sigrún M. Jónsson.
Arngrímur Johnson.
Albert Johnson.
J. Jóhannesson.
J. K. Johnson.
Guðríður H. Johnson.
Guðm. Á. Jóhannsson.
Gunnl. Tr. Jónsson.
Mrs. O. T. Johnson.
Mrs. Sigrún Johnson.
Björn Johnson.
S. J. Jóhannesson.
Hlaðgerður Kristjánsson
Kr. Kristjánsson.

Hannes J. Líndal.
Halldór Methusalems.
Magnús Markússon.
M. Magnússon.
Séra. Rún. Marteinsson.
Ingunn Marteinsson.
Guðm. Magnússon.
Bjarni Magnússon.
Rósa Magnússon.
J. W. Norman.
Nikulás Ottenson.
S. F. Ólafsson.
Mrs. Jóhanna Ólafsson.
Sig. Oddleifsson.
Mrs. Guðl. Oddleifsson.
Ed. W. Oddleifsson.
Axel L. Oddleifsson.
Jórunn Ólafsdóttir.
Arnl. B. Olson.
Séra Rögnv. Pétursson.
Hólmfríður Pétursson.
Thorv. Pétursson.
Margrét Pétursson.
Ólafur Pétursson.
Björn Pétursson.
Magnús Peterson.
Ólafur Pétursson.
Hannes Pétursson.
Tilly Pétursson.
Páll S. Pálsson.
Mrs. P. S. Pálsson.
Magnús Paulson.
Guðný Paulson.
Hjörtur Richter.
S. D. B. Stephanson.
Mrs. Ingv. Stephanson.
H. Sigurdson.
E. Sumarliðason.
Ovida Swainson.
Ida D. Swainson.
Jóel Theodor Swainson.
Friðr. Sveinsson.
Sigríður Sveinsson.
John Sigurdson.
Sigurbj. Sigurjónsson.
Hildur Sigurjónsson.
Sigríður Sigurjónsson.
Lára Sigurjónsson.
Elis E. Sigurjónsson.
Jón Sigurjónsson.
Jóhann Sigurjónsson.

Óskar Sigurðsson.
J. J. Swanson.
E. H. Sigurðsson.
Guðm. Sigurjónsson.
J. J. Samson.
Thorgils Thorgeirsson.
Jón Tómasson.
Charles G. Thorson.
Einar Thorgrímsson.
Guðjón Thorvaldson.
Soffanías Thorkelsson.
Mrs. Jóh.M. Thorkelsson.
Árni Thorlacius.
Kr. Thorsteinsson.
Ó. S. Thorgeirsson.
Jón Thordarson.
Þ. Þ. Þorsteinsson.
Mrs. Goðm. Þorsteinsson
John J. Vopni.
John A. Vopni.
Sigurður Vigfússon.

**Wynyard, Sask.**

Mrs. Jóna Axdal.
Mrs. Guðrún J. Axdal.
Th. S. Axdal.
Sigurjón J. Axdal.
H. I. Axdal.
Björg Axdal.
Sigurður Axdal.
Thorhallur Bardal.
Páll Bjarnason.
Dóra Bjarnason.
S. S. Bergmann.
Aðalsteinn Bergmann.
Júlíus Bjarnason.
Ásgeir I. Blöndahl.
Fanny Blöndal.
Hulda Blöndahl.
Hilmar Blöndahl.
Aldmar Blöndahl.
Óli Bardal.
Kristján Bergthorson.
Anna Bergthorson.
Friðrik Bjarnason.
E. Vilborg Björnsson.
S. J. Eyríkson.
Mrs. S. J. Eyríkson.
Paul Eyjólfsson.
G. J. Guðmundsson.
Sigtryggur Goodman.

Mrs. Kristín Guðmundss.
V. Gíslason.
Halldóra Gíslason.
Thorsteinn J. Gauti.
G. Gíslason.
Arnþrúður Goodman.
Valdimar G. Gíslason.
Sigríður Guðjónsson.
Ásg. Guðjónsson.
Guðm. G. Goodman.
Óli J. Halldórsson.
O. Hall.
Mrs. Kristrún Hall.
Thorbergur Halldórsson.
Mrs. Ástborg Jóhannsson
John Jóhannsson.
Miss Thora Jóhannsson.
Gunnar Jóhannsson.
Halldór Johnson.
Mrs. Dómhildur Johnson.
Guðmundur Jónsson.
Gunnsteinn Johnson.
Thuríður Johnson.
John Johnson.
Thor. I. Jensen.
H. Kristjánsson.
Thordur Johnson.
Ólína Johnson.
H. B. Johnson.
Páll Johnson.
Sigrún Johnson.
Ó. J. Jónasson.
Jóseph Jósafatsson.
N. B. Josephson.
Guðný Josephson.
Thorlákur Jónasson.
Guðný Kristjánsson.
Hannes Kristjánsson.
Jón Kristjánsson.
J. H. Líndal.
Carl Magnússon.
Stephan Magnússon.
Jakob J. Norman.
Kristinn Pálmason.
Guðm. Paulson.
Á. Sædal.
Halldóra Sigurjónsson.
Séra Haraldur Sigmar.
Jóh. J. Stefánsson.
S. J. Wium.

# Efnisyfirlit.

# Auglýsingaskrá Tímaritsins.

# Manitobastjórnin og Alþýðumáladeildin.

## Verjið uppskeruna fyrir myglu.

Það meira en borgar sig fyrir hvern bónda, að fara vel með fræ það, sem nota skal til sáningar, svo það geti eigi síðar meir orsakað myglu.

Hvað er mygla? Það eru ýmsar myglutegundir mjög algengar í kornuppskeru vorri í Vestur-Canada, en eftirfarandi lýsing mun þó að mestu leyti ná til þeirra allra.

Mygla í korni kemur fyrst verulega í ljós um uppskerutímann. Kornhöfuðin eiga að vera um þær mundir þrungin af korni, en eru í þess stað full af sallafínu, svörtu dufti. Stundum er duft þetta laust, og hefir það þá þau áhrif, að myglulykt sterka leggur af hveitinu, og gerir það mikinn usla í hveiti-framleiðslu bænda, ef eigi er að gert í tíma. Aftur á móti fer myglan stundum í kúlur, svokallaða myglu-hnetti, er vaxa þar sem hveitikjarninn á að þroskast. Þessir smáu hnettir eru innan í hýðinu, þar sem **kjarninn** mundi eiga heima, ef kornhöfuðið væri ósjúkt.

Þessir mygluhnettir þurfa að vera hreinsaðir í burtu, áður en þeir ná að útbreiðast eða verða að dufti. Venjulega skal útrýming þessa ófagnaðar fara fram að vorinu eða um sáningartímann. — Það leynir sér ekki, ef um nokkra verulega myglu er að ræða, því lyktin segir til sín fljótlega, enda verður hveitikjarninn þá svartur útlits.

Þetta svarta duft er í raun og veru ekki annað en svolítið frækorn — myglukorn. Ef að þessi myglukorn eru á fræinu um sáningartímann og enn með lífi, taka þau þegar að gróa, en í stað þess að skjóta rótum ofan í jarðveginn, þá vaxa þau inn í hveitiplötnuna. Og um leið og hveitið, hafrarnir og byggið taka að gróa, þá vefjast myglubræðirnir utan um jurtina og ræna næringarefninu, og svo, þegar til uppskerunnar kemur, hafa myglukornin orðið þess valdandi að í staðinn fyrir fallegt hveiti, hafra og bygg verða ávextirnir bara svört myglukorn.

## Formalin-blanda.

Eina ráði ðtil þess að forðast myglu, verður það, að útrýma hinu svarta fræi,, drepa það áður en korninu er sáð á vorin. Og skal það gert með eiturvökva (Formalin).—Formalin er hægt að kaupa í hvaða lyfjabúð sem vera skal.

Eina mörk Formalins skal nota út í 40 gallons af vatni og hræra vel saman. Síðan skal láta kornið, sem verja á, í hreinan vagn-kassa eða þá á slétt, hreint gólf, og láta lagið vera nokkurra þumlunga þykt. Að því búnu skal skvetta nokkru af þessum legi yfir kornið og róta því um jafnharðan, og skiljast eigi fyr við, en alt er orðið jafn rakt, síðan skal moka korninu í hrúgu og breiða vel yfir með pokum og ábreiðum. Sterkasta eiturefnið í Formalin er gas, og til þess að gasáhrifin geti notið sín fyllilega á meðal kornsins, þarf það að vera byrgt, að minsta kosti yfir eina nótt.

Skyldi nú vera svo ástatt, að ekki væri hægt að sá fræi þessu innan skams tíma, frá því það hefir verið þannig meðhöndlað, er nauðsynlegt að dreifa úr því svo að það geti vel þornað, og varast þarf að frost geti náð til þess á meðan það er rakt, því með því móti gæti það ef til vill myglað, og yrði þá seinni villan argari hinni fyrri. Pokarnir, sem kornið verður flutt í út á akurinn, þurfa að vera vandlega hreinsaðir fyrst og síðan vættir í Formalin-blöndu af sama styrkleik og áður hefir verið tekið fram, og sömu aðferð skal nota við sáningar áhöldin. — Fjörutíu gallons af Formalin-blöndu duga í fimtíu gallons af hveiti; en nokkru meira þarf fyrir hafra og bygg.

## Blásteinn.

hefir verið all-mjög notaður af bændum, til þess að verja korn gegn myglu, en nú í ár er örðugt að fá blástein, og þar að auki er hann afar-dýr. Það er líka miklu ódýrara og þægilegra á annan hátt að nota Formalin, heldur en blástein. Formalin getur upprætt ýmsar myglutegundir, sem blásteinn dugar ekki til.

Þeir bændur, sem nota kornhreinsunarvél (Fanning Mill) rækilega, standa miklu betur að vígi gagnvart hættunni, sem oft stafar af myglu. Og undir öllum kringumstæðum borgar það sig fyrir bóndann að nota kornhreinsunarvél, því við það er hann nokkurnveginn viss með að fá eins gott útsæðiskorn og framast getur hugsast.

**Landbúnaðardeild Manitoba-fylkis. Hon. G. H. Malcolm, ráðgjafi.**